# Konráð Gíslason.

Eftir

**Björn Magnússon Ólsen.**



## I.

Með firstu póstskipsferð, sem hingað kom frá Kaupmannahöfn á þessu ári, barst til landsins sú sorgarfregn, að prófessor Konráð Gíslason væri dáinn. Þessi maður var einn af hinum merkustu vísindamönnum, sem Ísland hefur átt á þessari öld, og hefur haft mikil áhrif á bókmentir vorar. Það er því ekki meira en skilt, þó að Tímarit hins íslenska bókmentafjelags minnist hans, með því líka að hann var heiðursfjelagi bókmentafjelagsins, kosinn af Reikjavíkurdeildinni.

Í skjölum þeim, sem fundust eftir prófessor Konráð Gíslason, var meðal annars *ágrip af æfi hans, samið á dönsku af honum sjálfum.* Þetta ágrip segir nákvæmlega frá uppvexti Konráðs og firstu námsárum, og er á þessa leið:



## II.

**Æfiágrip Konráðs Gíslasonar eftir sjálfan hann.**

**(Nær til 1868).**

*Konráð Gíslason, sonur firverandi bónda og hreppstjóra Gísla Konráðssonar (fædds 18. júní 1787) og*

*konu hans Efimíu Benediktsdóttur*[1] *(† 1846), er fædd-ur á Norðurlandi 3. (eftir skírnarvottorðinu 11.) júlí 1808. Árið 1867 samdi faðir minn ágrip af ritum íslenskra ættfræðinga og jók þar við ímsum athuga-semdum, fróðlegum firir alda og óborna ættmenn vora. Í þessu óprentaða ágripi telur hann með forfeðrum sínum: Egil Skallagrímsson og sonardóttur hans Helgu hina vænu (sjá Gunnlaugs sögu ormstungu), Ara Mársson, sem menn segja hafi lokið æfi sinni á Hvítramannalandi eða Írlandi hinu mikla (sjá t. d. Grönlands historiske mindesmærker), Þorgils Arason (sjá Grettlu og víðar), Þorgils Oddason (sjá Sturlungu), Sæmund fróða, Guðmund díra (sjá Sturl.), Snorra Sturluson og bróður hans Sighvat, Loft ríka, Björn Jórsalafara. Móðurfaðir móður minnar var prófast-ur († 1799) og hef jeg heyrt, að hann hafi verið mjög vel lærður maður og guðhræddur og ákaflega strang-ur, enn þó rjettlátur. Þannig er sagt, að hann hafi látið dóttur sína, einkabarn sitt, ganga opinberlega til skrifta söfnuðinum til viðvörunar; hafði hún átt barn óskilgetið með manni nokkrum, sem sveik hana og fór síðan utan og kom aldrei aftur, enn barnið var móðir mín; skömmu eftir skriftirnar er sagt, að hún hafi andast, 23 ára gömul*[2]. *Firsti kennari minn var mín ástríka*

---

1) *Ekki Philippusdóttir.* Ath. höfundarins.

2) Langafi Konráðs Gíslasonar, sá er hjer ræðir um, var Jón Jónsson, prófastur í Skagafjarðarprófastsdæmi 1770—1786, varð prestur til Rípur og Viðvíkur 1756, fjekk Hofstaða þing 1759, varð prestur í Grímstungu 1786 og dó þar árið 1799. Hallgrímur djákni Jónsson fer um hann þessum orðum í prestatali sínu: »Hann var vel lærður og ágætur kennimaður, ætíð mikils metinn, enn ekki mikill búsíslumaður, kallaður undarlegur í lund, meðalmaður vexti, hvítleitur og ei sjerlega fríður«. Hann vígði nokkra presta í forföllum Gísla biskups, og líka meðan meistari Hálfdán var stiftsprófastur. Með konu

*og guðhrædda móðir. Af því að faðir minn ekki hafði tóm til þess, kendi hún bæði mjer og seinna 8 sistkinum mínum, og varð þó um leið að gegna öllum innanhússtörfum, því að foreldrar mínir vóru fátækir. Tilsögnin var í því fólgin, að hún kendi mjer að lesa og skrifa, æfði mig í bibliulestri og skírði firir mjer barnalærdóms kverið (Balle's) og ljet mig læra það utan bókar, og gengu til þess 4 vikur, þegar jeg var á 5.[?] eða 6. ári; sömuleiðis fór hún ifir stutt ágrip af veraldarsögunni með mjer (eftir Galletti). Næsti kennari minn var Jón prófastur Konráðsson*[1]*, ættingi minn, veglindur maður og fróður, og veitti hann mjer ókeipis fæði og kenslu í 18 vikur samtals — ef jeg man rjett: 8 vikur, þegar jeg var á 8. ári, og 10 vikur ári síðar. Dóttir hans, sem þá var um tvítugt, reindi til að kenna mjer dálítið í dönsku, enn það mistókst alveg. Sjálfur ljet hann mig lesa upp kverið og hlíddi mjer ifir það, og kendi mjer þar að auki reikning, enn það var sú námsgrein ein, sem mig um þær mundir langaði til að læra, því að í henni einni þóttist jeg sjá einhverja skímu. Meira gagn hafði jeg samt sem áður af því síðar meir, að hann ljet mig lesa og skírði firir mjer stuttar og auðveldar latínskar setningar, sem svaraði tveimur, eða ef til vill ekki nema einni blaðsíðu í 8 blaða broti, og hafði jeg þó hvorki nje sindi neinn áhuga á að læra þetta, og að skilnaði mátti heita að hann træði upp á mig »Donati paradigmata« á latínu, sem jeg átti að skrifa upp heima hjá mjer, og auk þess gaf hann mjer skrifaða íslenska*

---

sinni Guðrúnu Hannesdóttur átti sr. Jón 3 börn, Jón og Setselju, sem dóu ung, og Setselju Sigríði, ömmu Konráðs Gíslasonar. Ath. þíðandans.

1) Prestur að Mælifelli 1810—1850, varð prófastur í Skagafjarðar prófastsdæmi 1814, † 1850. Ath. þíðandans.

*þíðing á hinni latínsku orðaskipunarfræði C. G. Bröders í ágripi, sem hann sjálfur hafði gert. Jeg var fermdur á 12. árinu, enn annars var jeg lengstum smali, frá því jeg var á 8. eða 9. ári, þangað til jeg hafði hálfnað 18. árið. Á vetrum gætti jeg sauða föður míns á daginn, þegar veður leifði að halda þeim á beit úti í haganum, sem oftast var hulinn snjó. Á sumrin mátti jeg varla nokkurn tíma af þeim líta hvorki nótt nje dag, og aldrei mátti jeg tálma ferð þeirra, jafnvel ekki í hvassviðri, og rásuðu þessar skepnur þó altaf upp í vindinn, rjett eins og það væri ætlunarverk þeirra að leita að upptökum hans. Jeg gerði mjer far um að verða góður smali. Það leið ekki á löngu, áður jeg kintist eðlisháttum kindanna, að svo miklu leiti sem mjer var áríðandi að þekkja þá, og þegar jeg sá, að hópurinn mundi halda kirru firir og bíta stundarkorn, gat jeg annaðhvort farið að lesa einhverja íslenska bók, sem jeg hafði haft með mjer, einkum sögur, sem mjer hafði þótt mjög gaman að, frá því jeg var á 6. árinu, eða jeg gat sökt mjer niður í þá latínsku leindardóma, sem fir var getið og frændi minn hafði ráðið mjer til að leggja stund á. Hvíldarstundir minnar litlu hjarðar urðu brátt einnig mínar hvíldarstundir. Þegar hún hafði lagst niður á einhverjum bletti, sem til þess var kjörinn, til að jórtra í friðsælu næði, valdi jeg mjer lítinn hól þar í í grend, lagðist til svefns og vaknaði — oft holdvotur af regni, enn þó aldrei of seint til að leisa af hendi smalaskildur mínar. Jeg vandist fljótt við þetta frjálsa, óstöðuga og einmanalega líf, og fór að fá óbeit á inniverum, og hefði eflaust sárkviðið firir, ef einhver hefði sagt mjer, að það ætti fyrir mjer að liggja að lifa í fjölmenni á einhverjum þeim stað á jörðinni, sem enska skáldið segir um:*

*Ye who amid this feverish world would wear*
*A body free of pain, of cares a mind,*
*Fly the rank city, shun its turbid air;*
*Breathe not the chaos of eternal smoke*
*And volatile corruption — —* [1].

*Þegar jeg var á 18. ári, var jeg sendur út í heiminn og varð nú sjómaður. Enn þegar vertíðin var á enda, var jeg fenginn til að hjálpa öðrum manni norðlenskum við hleðslu á grjótgarði hjá dr. phil. Hallgrími Scheving, sem þá var kennari (síðar ifirkennari) við lærða skólann á Bessastöðum (fæddur 13. júlí 1781, † 1861). Hann talaði oft við okkur og kallaði mig brátt inn til sín frá vinnunni og ljet mig hjálpa sjer að bera saman íslensk fornrit, og því næst las hann með mjer: »C. Cornelius Nepos: Vitae excellentium imperatorum« og nokkrar bækur úr Justinusi, og veitti mjer hina firstu tilsögn í því að skrifa latínu. Doktor Scheving var ein hin hreinasta og besta sál, sem hægt er að hugsa sjer. Viðmót hans var eðlilegt, blátt áfram og vinsamlegt, enn þó vel fallið til að vekja firir honum hina mestu lotningu. Honum tókst og að kveikja hjá mjer svo mikinn áhuga á náminu, að það var eins og skíla væri dregin frá augum mínum, þegar jeg var hálfnaður með »Nepos«, og þá átti jeg svo hægt með að skilja það, sem eftir var, að kennari minn hjelt, að jeg hliti að hafa lesið þennan höfund áður og vildi ekki trúa öðru, fir enn jeg hafði skrifað hjer um bil 6 litla latínska stíla, og var hinn síðasti villulaus, enn firsti stíllinn hafði verið fullur af alls*

1) Það er á vora tungu: Þjer sem viljið hafa líkama iðar lausan við þjáningar og sálina lausa við áhiggjur í þessum sóttveika heimi, flíið hina sællífu borg, forðist hennar óhreina loft, andið ekki að iður óskapnaðarsvælu eilífs reikjar og ljettúðugrar spillingar. Þíðandinn.

*konar vitleisum. Sá hrærigrautur af óljósum málfræðislegum hugmindum, sem jeg áður hafði numið, enn var nærri búinn að gleima, tók nú að skírast firir mjer og varð mjer að ómetanlegu gagni. Þessarar kenslu naut jeg víst hjer um bil í tvo mánuði og þá tók við vanaleg íslensk sumarvinna. Minn ógleimanlegi velgjörðamaður bauðst til að sjá mjer firir viðurværi, þangað til jeg fengi heila ölmusu í skólanum, og var jeg tekinn inn í hann um haustið 1826, og þó að sumarleifin væri löng (4 mánuðir) og jeg læsi ímislegt utan hjá í skólanum, var jeg útskrifaður til háskólans vorið 1831. Jeg gekk undir examen artium þetta sama ár í október og fjekk einkunnina laudabilis (ágætiseinkunn í latínskum stíl, latínu, grísku og grísku í stað hebresku), og varð jeg þó veikur, meðan á prófinu stóð, af sjúkdómi, sem stafaði af loftslaginu, og gekk því miður enn ella; þennan sjúkleik hafði jeg í margar vikur og olli hann því, að áhugi minn á náminu þverraði um langan tíma. Ári síðar tók jeg examen philologico-philosophicum, sömuleiðis með besta vitnisburði (ágætiseinkunn í latínu, grísku, sálarfræði, heimspekilegum forspjallsvísindum og stjörnufræði). Jeg tók nú að leggja stund á lögfræði, enn hafði mart annað — einkum þó tungumál — í hjáverkum án nokkurrar fastrar stefnu. Um hríð vóru rithöfundar slíkir sem Heinrich Heine mínar helstu leiðarstjörnur, enn þó hafa mínar kristilegu skoðanir aldrei bifast. Meðal þeirra rita veraldlegs efnis, sem altaf hafa verið mjer svalandi lífslindir og*

*λησμοσύνη τε κακῶν ἄμπαυμά τε μερμηράων*[1],

*hlít jeg einkum að nefna Hómerskvæði og íslenskar sögur.*

---

1) Það þíðir: *gleimska meina og raunabót.* Vísuorðið er tekið úr Hesióds Theog. 55. Þíðandinn.

*Jeg varð stipendiarius Arna-Magnæanus 12. mars 1839, stofnaði ásamt fleirum íslenskt bindindisfjelag 1843, var skipaður kennari við lærða skólann í Reikjavík 27. apríl 1846 frá 1. október það ár, enn tók aldrei við því embætti, var einn af stofnendum hins norræna bókmentafjelags og kosinn í stjórn þess 23. janúar 1847 (endurkosinn 22. júní 1849), auka-docent og lektor í norrænum málum við háskólann í Kaupmannahöfn 2. maí 1848, meðlimur Árna-Magnússonar nefndarinnar 2. júní sama ár, kjörinn heiðursfjelagi hins íslenska bókmentafjelags af Reikjavíkurdeildinni 10. febrúar 1853, fjekk prófessors nafnbót 6. október sama ár, valinn meðlimur sagnfræðadeildar hins konunglega danska vísindafjelags 2. desember sama ár, brjefskiftafjelagi hinnar konunglegu vísindaakademíu í Berlín 2. mars 1854 (ekki 25. janúar 1855). Arið 1855, 21. nóvember, gekk jeg að eiga Karen Sophiu Pedersen (fædda í Sórey 17. september 1812) dóttur beikismeistara Jóhanns Pedersens og konu hans Anne Kirstine Sundt (ekki Smidt)), brjefskiftafjelagi hinnar konunglegu vísinda, sögu og fornfræða akademíu í Stokkhólmi 14. apríl 1857, reglulegur prófessor við Kaupmannahafnar háskóla 23. júní 1862, kosinn skrifari í hinu konunglega norræna fornfræðafjelagi til að gefa út fornritin 4. apríl 1865, endurkosinn 4. apríl 1868.*

*Einn af stofnendum hins íslenska tímarits Fjölnis (1835) og einn af útgefendum og ritstjórum 1.—4. og 6.—9. árgangs sama tímarits (Kaupmannahöfn 1835 —1847*[1].

1) Æfiágrip þetta er þítt eftir eiginhandarriti höfundarins, sem er eign Árna-Magnússonar-stofnunarinnar. Tilefnið til, að það var samið, mun vera það, að Konráð próf. árið 1868 var kosinn heiðursdoktor af háskólanum í Lundi í Svíþjóð. Annað æfiágrip eldra er og til með hendi Konráðs og

III.

Annað ágrip af æfi Konráðs er í stúdentatali Brinjólfs Bogasonar Benediktsens síslumanns í handritasafni landsbókasafnsins Nr. 394, 4to. Er það þar skrifað með hendi Gísla Konráðssonar, föður Konráðs, og mun vera að mestu samið af honum. Þetta æfiágrip er reindar örstutt, enn þó er ímislegur fróðleikur í því — einkum um æsku Konráðs og ætt hans — sem ekki er í sjálfsæfi hans og læt jeg því prenta það hjer á eptir:

IV.

**Úr stúdentatali Brinjólfs Bogasonar Benediktsens síslumanns.**

Úr Bessastaðaskóla 1831.

297. Konráð Gíslason:

*Faðir:* Gísli hreppst. Konráðsson, bjó á Langamíri í Vallhólmi, Itra-Skörðugili og Húsabökkum í Skagafirði, fór síðast vestur í Flatei; hann var son Konráðs hreppstjóra og ferjumanns á Völlum Gíslasonar Konráðssonar.

*Moðir:* firri kona Gísla, Evphemía Benediktsdóttir Ólafssonar frá Rauðhúsum í Eijafirði, laundóttir hans með Sigríði, dóttur Jóns prófasts á Hjaltastöðum, síðast í Grímstungum, af Skaga ætt, Jónssonar, Sighvatsonar, Grettis-

---

samið af honum, og er það líka eign sömu stofnunar. Það er samhljóða hinu í aðalatriðunum, það sem það nær (til 1857), enn miklu stittra. Þó hefur það sumt, sem ekki stendur í því, sem hjer er prentað, t. d. að Konráð hafi verið álitinn fær um að taka burtfararpróf úr Bessastaða skóla eftir 4 ára dvöl þar, enn sótt um og fengið að vera eitt ár enn í skóla, að hann hafi lagt stund á lögfræði eftir annað próf við háskólann, til þess að verða betur fær um að skilja norræn lög, og að hann hafi verið konungkjörinn þingmaður firir Ísland á ríkisþinginu danska árið 1848—1849.

sonar. Var Guðrún Hannesdóttir ættuð að vestan, móðir Sigríðar, kona Jóns prófasts; dó Sigríður rúmt tvítug. Enn Benedikt fór utan og til Indlanda, kom síðan aftur til Kmhafnar og gerðist gestgjafi. Hann var hálfbróðir þeirra Eiríks prests á Staðarbakka og Hannesar prests á Ríp í Hegranesi.

Konráð var fæddur á Langamíri milli messna 1808. Hann var námfús, las þegar ungur fornsögur, átti skræðu af Núkleus, blaðaði oft í henni og lærði mikið í Oddsens orðbók heima hjá foreldrum sínum, og eggjuðu þeir Jón síslumaður Espólín og Jón prófastur Konráðsson Gísla að sækja um skóla firir son sinn, og Jón prófastur sagði honum til í 8 vikur, sínar 4 hvern veturinn. Sendi Gísli hann þá suður í Hraun í skiprúm það, er hann hafði ráðið sjer sjálfum, fór Konráð þá sjálfur með skólabeiðsluna suður og reri í Hraunum um vertíðina. Enn Gísli skrifaði til dr. Hallgrími Scheving og bað hann að ljá Konráði eitthvað að líta í, meðan hann væri í verinu. Enti Scheving það og tók hann um vorið til fulls; fjekk hann skólann um haustið og hálfa ölmusu, enn að hinum partinum gaf Scheving honum hana, meðan hann var í skóla og ljet hann slá tún sitt á sumrum. Var Konráð þá á 18. vetri, er hann fjekk skólann. Enn er hann var útskrifaður, var hann um hríð í Viðei að segja til 2ur piltum. Fór hann síðan utan, og gáfu honum fje nokkurt til siglingar Magnús konferensráð Stephensen og Ísleifur etatsráð á Brekku. Las hann þá first litla hríð lög itra, enn gaf sig síðan við málfræði, norðurlanda tungumálum og fornfræðum. Síktist hann í augum, fór til Þjóðverjalands að leita lækninga og batnaði þar, kom aptur til Hafnar, varð adjunkt við Reikjavíkurskóla 1846, enn kom ei út

hingað; fjekk lausn frá því embætti, og varð lektor við háskólann í Kmhöfn 1848 í norrænu, og sama ár meðlimur Árna Magnússonar nefndarinnar, enn 1853 prófessor, og 1860 varð hann riddari af dbr. Kona hans Karen Sophia ekkja (stórkaupmanns sögð); var hún sistir heitmeijar hans þar áður, er dó, áður saman irði vígð. Hann er barnlaus með konu sinni[1].

V.

Bæði þau æfiágrip, sem hjer eru prentuð að framan, fara mjög stutt ifir æfi Konráðs, eftir það að hann kom til háskólans, og hvorugt þeirra rekur æfiferilinn til enda, sem heldur ekki er von, þar sem þau bæði eru samin löngu áður, enn Konráð dó. Og þó er það einmitt þessi hinn síðari kafli úr æfi Konráðs, sem mestu varðar um að vita, því að þá birjar first hið merkilega lífsstarf hans. Jeg mun því reina að filla lítið eitt uppí það skarð, sem hjer er í æfiágripin.

Þegar Konráð Gíslason kom til Kaupmannahafnar sumarið 1831, var Baldvin Einarsson langfremstur í flokki hinna ungu Íslendinga. Hann hafði þá um nokkur ár gefið út ársritið »Ármann á al-

---

1) Jón Borgfirðingur hefur góðfúslega látið mjer í tje útdrátt úr riti eftir Gísla Konráðsson, þar sem hann minnist á Konráð. Kemur það heim við það, sem hjer segir, enn segir greinilegar frá ímsu, t. d. að Gísli hafi haft Konráð með sjer suður í lestaferð sumarið 1824, 16 ára gamlan, og látið Scheving reina kunnáttu hans. Þar segir og, að sá maður, sem Konráð var í skiprúmi hjá á vetrarvertíðinni 1826 hafi verið Bjarni nokkur á Straumi, og enn fremur, að Konráð hafi dvalið eitt sumar hjá Magnúsi Stephensen konferensráði í Viðei, áður enn hann fór utan.

þingi« ásamt Þorgeiri Guðmundssini, og ritdeila hans við prófessor Rask var þá á þrotum. Sama haustið, sem Konráð kom til Hafnar, tók Baldvin embættispróf í lögfræði. Eigi er mjer kunnugt um, að nokkur verulegur kunningsskapur hafi verið milli Konráðs og Baldvins, enda urðu samvistir þeirra í Kaupmannahöfn eigi langar, því að Baldvin andaðist, sem kunnugt er, snemma á árinu 1833. Aftur á móti mun Konráð fljótt hafa orðið aldavinur Brynjólfs Pjeturssonar. Þeir höfðu verið 2 ár skólabræður í Bessastaðaskóla (1826—1828), og var Brinjólfur 2 árum ingri enn Konráð, þó að hann kæmi fir í skóla, og hafði hann verið 2 ár í Kaupmannahöfn, þegar Konráð kom. Hann var ágætum hæfilegleikum búinn og hvers manns hugljúfi. Magnús Eiríksson kom til Kaupmannahafnar sama sumarið og Konráð, og bjuggu þeir saman first framan af á Garði, og hjelst vinátta þeirra meðan þeir lifðu báðir. Sömuleiðis mun Konráð um þessar mundir hafa rifjað upp aftur kunningsskap sinn við Tómas Sæmundsson — þeir höfðu verið eitt ár saman í skóla, Tómas var þá í óða önn að lesa undir embættispróf, sem hann leisti af hendi árið 1832 í janúarmánuði, enn um vorið það sama ár hóf hann ferð sína um hin merkustu lönd Norðurálfunnar, svo hann var ekki lengi samtíða Konráði í Höfn. Af ungum mönnum, sem þá vóru í Höfn, má enn fremur nefna Þórð Jónasson, síðar há-ifirdómara, Oddgeir Stephensen, síðar forstöðumann hinnar íslensku stjórnardeildar, Pjetur Pjetursson, bróður Brinjólfs, síðar biskup, Þorgeir Guðmundsson, sem þá var »kateket« enn síðar prestur í Danmörku, og Þórð Guðmundsson, síðar sýslumann og kammerráð, sem enn lifir. Finnur Magnússon var þá langmerkastur íslenskra vísindamanna utan

lands, enn hann mun þá um hríð ekki hafa haft mikið samneiti við hina ingri Íslendinga eftir ritdeiluna milli þeirra Rasks og Baldvins.

Í þennan hóp kom Konráð Gíslason árið 1831 í ágústmánuði og mun hann brátt hafa orðið handgenginn flestum þessum mönnum. Ári síðar bættist Jónas Hallgrímsson í hópinn og tókst með þeim Konráði hin mesta vinátta. Konráð segir frá því sjálfur í æfiágripinu hjer að framan, að hann hafi orðið veikur, áður enn hann var búinn að leisa af hendi examen artium þetta hið sama haust. Þessi sjúkdómur, sem hann nefnir lungnabólgu í brjefi til mín, dags. 11. jan. 1888[1], dró mikið úr áhuga Konráðs á náminu first framan af í Höfn. Hann ætlaði sjer að leggja stund á lögfræði, enn mun hafa þótt hún þur og óskemtileg, og ljet því ímislegt annað sitja í firirrúmi. Samt var hann ekki iðjulaus. Hann las af kappi þíska rithöfunda, til dæmis Ludvig Börne, enn einkum var þó Heinrich Heine uppáhaldsskáld hans um þessar mundir. Heine var þá nibúinn að gefa út Reisebilder (1826—31) og Buch der lieder (1827) og var átrúnaðargoð ungra manna á Þískalandi og annarstaðar í Norðurálfunni, þar sem þísk tunga var lesin. Hvað það var, sem dró hug Konráðs svo að Heine, má að nokkru leiti sjá á grein hans og Jónasar Hallgrímssonar um hann í 1. árgangi Fjölnis. Þar segir svo: »Hann (ɔ: Heine) er gott skáld: andagiptin mikil og ímindunaraflið, enn þó ekki brestur á viti. Samt er hann ekki stöðugur í sjer, þegar hann irkir, því meðan það er sem blíðast og barnalegast hjá honum, þá er hann alt í einu

1) Sbr. Rasmus Kristján Rask, 1787—1887, Minningarrit, gefið út af hinu íslenska bókmentafjelagi, 36. bls.

rokinn og gengur berserksgang, og meðan hann leikur sjer í meinleisi og *er ekki nema tilfinningin tóm*, veit enginn firri til, enn hann verður *meinhæðinn* og tilfinningarlaus. Fáir munu vera sjálfum sjer ólíkari — *nema þegar hann talar um frelsið, þá er hann æfinlega sjálfum sjer samur, því að Hænir ann frelsinu, eins og allir þeir, sem bestir og vitrastir eru*«. 'Hin hjartnæma viðkvæmni — »angurblíðan«, sem Jónas kallar — hin meinfindna hæðni og heita frelsisþrá hins þíska skálds virðist hafa snortið líka strengi í brjósti Konráðs. Það má telja víst, að Konráð hafi leitt athigli vinar síns Jónasar Hallgrímssonar að Heine og öðrum þískum skáldum, þegar Jónas kom til Hafnar. Hannes Hafstein segir svo í æfisögu Jónasar, að hann hafi gefið sig mikið við að stunda bókmentir og skáldskaparrit enn lítið ort firstu árin sín í Kaupmannahöfn[1], og mun Konráð hafa kent honum firstur manna, að bergja á hinum auðuga brunni þískra skáldrita, og haft talsverð áhrif á hann í þessu sem fleiru. Þíska var ekki kend á Bessastöðum, og mun Jónas lítið eða ekkert hafa kunnað í þeirri tungu, fir en hann kom til Hafnar. Auk þess lagði Konráð mikla stund á heimspeki að sögn Þórðar kammerráðs Guðmundssonar, og mælt er, að Sibbern háskólakennari hafi sagt, þegar hann prófaði Konráð í heimspeki árið 1832, að hann mindi ekki til, að hann hefði haft jafnmikla ánægju af að prófa neinn eins og Konráð þá, enda fjekk hann ágætiseinkunn í sálarfræði og í forspjallsvísindum.

Einkum mun þó Konráð hafa gefið sig við mál-

1) Jónas Hallgrímsson: Ljóðmæli og önnur rit. Khöfn 1883. XVI. bls.

fræði. Vjer vitum af æfiágripinu, að það var Hallgrímur Scheving — hinn ógleimanlegi velgjörðamaður hans og kennari — sem firstur vakti áhuga hans á þeirri grein. Sömuleiðis mun hann hafa átt Sveinbirni Egilssini mikið að þakka í þessu efni, og má ganga að því vísu, að Sveinbjörn hafi átt mikinn þátt í að vekja hjá honum tilfinningu firir fögru íslensku máli. Í skóla lagði hann samt, að því er segir í burtfararvottorði hans, mesta stund á gömlu málin, latínu og grísku, og dáðust bæði kennarar hans og skólabræður að því hvað latínan »lá bæði lipurt og ljett á kostum hreinum« hjá honum. Munnmæli þau, sem gengið hafa nú í 60 ár í latínuskólanum bæði á Bessastöðum og í Reikjavík, hafa trúlega geimt endurminninguna um þetta mann fram af manni, og enn er ekki gleimd í Reikjavíkurskóla saga sú, er nú skal greina. Einu sinni, meðan á prófi stóð eða þegar próf var nílega afstaðið í Bessastaðaskóla, fannst þetta letur skrifað með krít á bekkjarhurðina í efri bekk: »*Multum valet in examine accurate tradita didicisse, plus casus, plurimum favor. Quare nobis nihil prius, nihil antiquius esse debet, quam ut favorem praeceptorum per fas nefasque captemus*«[1]. Allir þektu þegar mark Konráðs á þessari klausu, því að enginn annar enn hann gat skrifað svo smellna latínu. Við *examen artium* fjekk hann ágætiseinkunn í latínskum stíl, latínu, grísku og grísku í stað hebresku. Sigurður Melsteð lektor hefur góð-

---

1) Það er á íslensku: »Mikið er undir því komið í prófi að hafa lært vel, það sem kent hefur verið, meira undir tilviljun, enn þó mest undir hilli (kennaranna). Því á oss ekki að vera neitt fremra eða annara enn það að sækjast eftir hilli kennaranna með öllu móti, leifilegu og óleifilegu«.

fúslega ljeð mjer afskrift, sem hann á af latínska stílnum, sem Konráð gerði við þetta tækifæri, og af því að þeir menn eru þó enn þá til hjer á landi, sem þikir gaman að lesa fagra latínu, prenta jeg hjer neðanmáls hið danska verkefni og stílinn samsíða[1]. Í latínunni var hann prófaður af Madvig, og

---

1) *Latínskur stíll,*
gerður af Konráði Gíslasyni
við examen artium 1. október
1831.

Verkefni:

Vi vide ikke, hvorom de, der står i begreb med at begynde et friere studium af videnskaberne mere passende kan erindres, end om, at intet menneske kan give det andet sand indsigt. Ti det som kaldes med dette hellige og ærværdige navn, er en forstand på tingene, der fødes indeni os ved sjælens egen kraft. Derfor skal ingen stole på dygtige læreres kunst og iver alene, eller tro, at han gjör sin pligt fyldest blot ved at samle det, som andre giver. Og dog er det så langt fra at vi må foragte andres hjælp, at vi nok må anse alle, der har levet for os og efterladt os minde om deres tænkning og flid, at have arbejdet for os. Ti både bringer ofte andre tingene til at fremstille sig for vor sjæl, og sjælen vækkes til virksomhed ligesom ved glansen af andres indsigt,

Latínsk þíðing:

Nescimus qua de re ii, qui in eo sunt, ut aliquam ingrediantur liberaliorum artium viam, commodius moneri possint, quam non esse humanarum virium aliis veram indere scientiam. Etenim id, quod tam sancto nomine appellamus tamque venerabili, rerum est intelligentia, quae ipsius animi vi et effectu in ipso animo innascitur. Quocirca nemo vel optimi doctoris arte et studio magnopere confidat, neue credat officio se satisfecisse, si ea tantummodo collegerit, quae tradita ab aliis monitaque sunt. Sed tantum abest, ut aliorum opem contemnere debeamus, ut multo magis ita sit judicandum, omnes, qui suae nobis et meditationis et diligentiae monumenta reliquerint, ad nostra studia aliquid contulisse. Namque haud raro, quod sese res menti nostrae

hefur kammerráð Þórður Guðmundsson sem sjálfur var við prófið, sagt mjer, að Madvig hafi látið hann koma upp einhverstaðar í riti Ciceros um skildurnar, og hafi Konráð þá lokað bókinni og þulið staðinn upp utan bókar; hafi þá Madvig sagt: »Non abs te petivi, ut ex memoria recitares«[1], enn síðan hafi alt prófið farið fram á latínu. Sumir segja, að Madvig hafi sagt að lokum: »Plus quam egregie meruisti«[2], enn ekki man Þórður kammerráð það.

Þegar Konráð kom til Kaupmannahafnar, fór hann að leggja stund á fleiri tungumál enn latínu og grísku. Rask var þá langfremstur allra málfræðinga á Norðurlöndum, og þó víðar væri leitað. Hafði faðir Konráðs komist í kunningsskap við hann, þegar hann var á Íslandi, og sagt honum frá sini sínum, sem þá var á 7. árinu, og hafði Rask talað um, að það væri gaman að geta tekið Konráð með sjer til Danmerkur. Konráði var því mikil forvitni á að sjá Rask, enn þegar hann kom til Hafnar, var honum sagt, að Rask hefði óbeit á öllum Íslending-

---

heller ikke ser den alle sider og forfölger alle veje uden andres påmindelse og vejledning. Derfor kan begge dele siges med ret, både at al vor kundskab mere end nogen udvortes ting er vor egen og vort arbejdes værk, og at vi har mange at takke for det, vi ved og forstår.

offerunt, aliorum debemus meritis, fitque, ut animus alienae velut splendore scientiae ad agendum excitetur; nec enim omnia consequi cogitatione aut persequi possit, nisi sint, qui monstrent et doceant. Ita utrumque jure dici potest, et, nostram scientiam, magis quam externi quidlibet, nobis esse propriam nostroque labori, et, quae tenemus et intelligimus, multa multis deberi.

1) ɔ: »Jeg beiddi þig ekki um að lesa utanbókar«.

2) ɔ: »Þú hefur unnið til meira enn »ágætlega«.

um vegna ritdeilunnar. Fundum þeirra bar first saman í háskólabókasafninu nokkru eftir það, að Konráð var kominn á fætur eftir lungnabólguna, sem hann fjekk, meðan *examen artium* stóð ifir. Var Konráð að fá að láni eitthvert rit um áherslu á grískum orðum. Rask var þá ifirbókavörður, og fjekk honum ritið sjálfur. Mun hann hafa heirt á málfæri Konráðs, að hann var Íslendingur, því að hann sagði við hann vinsamlega og góðmótlega, að það væri munur á merkingu áherslumerkjanna grísku og áherslumerkjanna íslensku. Þetta var Konráði altaf minnisstætt síðan, og sínir það, að honum hefur ekki þótt það þíðingarlítill viðburður í lífi sínu, þegar hann sá Rask í firsta sinni, enda hafa rit Rasks haft mikil áhrif á Konráð. Síðar um veturinn varð Rask loks prófessor í austurlandamálum og hlíddi Konráð ásamt tveimur dönskum mönnum á firirlestra hans um serknesku (»arabisk«) heima hjá honum sjálfum[1]. Aðra persónulega viðkinning mun Konráð ekki hafa haft af Rask, sem dó skömmu síðar (14. nóv. 1832). Enn því meira lærði hann á ritum hans, og minnist hann hans með lotningu og þakklátsemi í hinum elstu ritsmíðum sínum[2]. Áhrif Rasks á Konráð lísa sjer berlega í 10. árgangi Skírnis 1836, sem þeir Jónas og Konráð sömdu í sameiningu. Það er reindar ervitt á það að giska, hvað hvor þeirra á í þessu riti,

1) R. K. Rask. 1787—1887. Minningarrit. 36. bls. neðanmáls (= Tímarit hins ísl. bókmenntafjelags 1888, 36. bls.).

2) Sjá t. d. Fjölni II. ár, 1836, 13. bls., Skírni 10. árg. 1836, 1. bls. Útgáfa Konráðs og P. G. Thorsens á Hrafnkels sögu er helguð »endurminningunni um hinn mikla málfræðing og skarpvitra skipunarsnilling í hinu víðlenda ríki tungumálanna, R. K. Rask, með innilegustu tilfinningu þakklætis, lotningar og aðdáunar«.

enn það má þó telja víst, að niðurskipun efnisins er frá Konráði, því að frjettunum í þessum árgangi Skírnis er raðað eftir »tölu þjóðanna og frændsemi þeirra«, enn ekki eftir löndum eins og fir var títt, enn frændsemi þjóðanna er aftur látin fara eftir skildleika tungumálanna, sem þær tala, þannig að first eru taldar þær þjóðir, sem ólíkastar eru og fjarskildastar Íslendingum, að því er tunguna snertir, og síðan koll af kolli, hver þjóð því síðar, sem tungumál hennar nálgast meira íslenskuna, síðast Danir, Svíar og Norðmenn. Í þessari niðurskipun virðist Konráð einkum filgja Rask, til dæmis þar sem hann sínist skipa keltnesku málunum firir utan indoeuropeiska tungumálaflokkinn (14. bls.) eða telur slafnesku málin fjarskildari hinum germönsku enn grísku (50. bls.). Annars er orðfærið indislega fagurt, lipurt, hreint og látlaust á þessum árgangi Skírnis, og það eitt virðist mega að finna, að höfundarnir hafa allvíða farið of langt í því að íslenska útlend örnefni og mannanöfn eða setja á þau íslenskar endingar (t. d. Góðviðra = Buenos Ayres, Sáland = Cuba, Miðgarðaríki = Ecuador, Bitra = Chile, Svartur = Priéto, Níðskeifr = Nidschib, o. s. frv.). Það sjest ljóslega á þessu riti, að Konráð hafði þá lagt stund á fleiri mál enn latínu og grísku, og að hann hafði reint að gera sjer hugmind um afstöðu og samband tungumálanna hvors við annað. Það má nærri geta, að maður, sem hafði eins næma þjóðernistilfinningu og Konráð, hafi eigi hvað síst lagt stund á móðurmál sitt, íslenskuna, enn í því vóru málfræðisbækur Rasks leiðtogar hans eins og annara á þeim tímum.

Vorið 1834 í maímánuði kom Tómas Sæmundsson aftur til Hafnar úr suðurferð sinni og var þar,

þangað til hann fór heim til Íslands alfarinn 10. ágúst sama ár. Það er eins og nítt fjör færist í Íslendingahópinn í Kaupmannahöfn, þegar hann kemur aftur með höfuðið fult af öllu því fagra og merkilega, sem hann hafði sjeð á leið sinni, og hjartað fult af heitri föðurlandsást. Hann, sem »hafði sjeð borgir margra manna og kint sjer siði þeirra«, eins og sagt er um Odysseus, hlaut að sjá það betur enn flestir aðrir, í hverju hans eigin þjóð var ábótavant, og hann hafði brennandi áhuga á að laga gallana, bæta brestina, »brjóta skarð í stíflurnar og veita fram lífsstraumi þjóðarinnar«, eins og hann sjálfur kemst að orði[1]. Um þessar mundir kom ekkert tímarit út á íslensku annað enn Skírnir. Baldvin Einarsson var fallinn í valinn á besta aldri í fullu fjöri, og Ármann hafði sofnað út af með honum — hafði ekki komið út síðan 1832. Tómas og þrír vinir hans í Höfn, Brinjólfur Pjetursson, Jónas Hallgrímsson og Konráð Gíslason, tóku sig því saman um að gefa út ársrit á íslensku til að »vekja lífið í þjóðinni og halda því vakandi og til að efla frelsi hennar heill og mentun[2]«. Þetta rit nefndu þeir fjelagar »Fjölni«, og kom firsti árgangur hans út árið 1835. Með þessu tímariti hefst nítt tímabil í sögu íslenskra bókmenta, og af því að Konráð Gíslason átti svo mikinn þátt í því, vona jeg að enginn hneixlist á því, þó að jeg hverfi um stund frá aðalefni ritgjörðar þessarar og reini að segja í stuttu máli æfisögu Fjölnis.

---

1) Fjölnir, 1. ár, 1835, 4. bls.

2) Sbr. Fjölni, 1. ár, 1835, 4. bls.

## VI.

### Fjölnir.

Firsta ár Fjölnís birjar á grein með firirsögninni »Fjölnir«, sem skírir frá tilgangi og stefnu tímaritsins. Þessi grein er eftir Tómas Sæmundsson[1], og sínir það, að hann muni hafa verið frumkvöðull og firsti hvatamaðar þess, að stofnað var til tímaritsins. Þar er sagt, að útgefendurnir muni sífeldlega hafa firir augum fjögur atriði: nitsemi, fegurð, sannleíka og það sem er gott og siðsamlegt. Sjerstaklega er það tekið fram, að þeir muni vanda málið á ritinu sem best og »leitast við að vekja fegurðartilfinninguna, sem sumum þikir vera heldur dauf hjá okkur Íslendingum». Allri bókinni segjast þeir munu skifta í tvo höfuðflokka, eftir því hvort efnið sje íslenskt eða þá annaðhvort útlenskt eða almennt. »Í firra flokkinn koma allar þær greinir, sem snerta annaðhvort landið sjálft og þess náttúru, ellegar þjóðina, sem í því biggir. Enn einkanlega höfum við í huga þau málefni, sem viðvíkja almenningi og mest eru verð, svo sem first og fremst fulltrúaþingin (alþing), svo framarlega sem þau komist á, sömuleiðis

1) Konráð Gíslason mun þó eiga athugasemdina neðanmáls á 11. bls. og mest af því sem sagt er á þeirri blaðsíðu og hinni næstu um tungumál alment og sjerstaklega um íslenskuna. Þar stendur meðal annars: «Þess heldur ættu menn að kosta kapps um að geima og ávaxta þennan dírmæta fjársjóð (íslenskuna), sameign allra þeirra, sem heitið geta Íslendingar«. Sama hugmindin svo að segja með sömu orðum finst í ræðu Konráðs um íslenzkuna (Fjölnir, 4. ár, 1838, 24. bls.). Hugsun sú sem kemur fram í orðunum: «Málin eru höfuðeinkenni þjóðanna«, er grundvöllur niðurskipunarinnar á frjettunum í 10. árgangi Skírnis, eins og jeg áður hefi sínt, og má því einnig telja víst, að þessi orð sjeu eftir Konráð.

hvað sem áhrærir atvinnuhættina, athafnir embættis manna, eða stjórn Dana í landinu .... Það þikir einnig vel til fallið að setja í þennan part álit og ritgjörðir útlendra manna áhrærandi Ísland eða Íslendinga .... Í seinna flokknum verður reint að lísa sem best öðrum löndum og þjóðum jarðarinnar ... getið helstu uppgötvana og sagðar stuttlega æfisögur merkustu manna, einkum þeirra, sem nú eru uppi eða nílega dánir. Í þennan hluta verður einnig vísað þeim greinum, sem ekki snerta fremur einn enn annan, heldur eru öllum jafnnákomnar, hverrar þjóðar sem eru«. Auk þess ætla útgefendurnir að hafa sjerstakan þátt, sem nái ifir allar þjóðfrjettir innlendar og útlendar.

Næst á eftir þessum formála kemur hið fagra kvæði Jónasar: »Ísland, farsælda frón«, þessi herhvöt til hinna ungu manna og til landsins fullorðnu sona, að láta ekki »lingið á lögbergi helga blána af berjum hvert ár börnum og hröfnum að leik«, heldur láta alþingi rísa aptur úr rústum á Þingvelli. Þetta kvæði má að nokkru leiti heita einkunnarorð hins nija tímarits. Tvö vísuorð í því eru annars ekki ort af Jónasi, heldur »dreimdi Konráð Gíslason eina nótt, að maður kæmi til hans mikill og föngulegur og ávarpaði hann með kvæði. Þegar hann vaknaði, mundi hann úr því þetta erindi:

Landið var fagurt og fritt og fannhvítir jöklanna tindar,
himininn heiður og blár, hafið var skínandi bjart.

Sagði hann Jónasi drauminn, og orti hann þá kvæðið við þessar línur«[1]).

---

1) Svo segir Hannes Hafstein í athugasemd við kvæðið í 2. útgáfu Ljóðmæla Jónasar (á 390. bls.), og hefur hann söguna frá Konráði sjálfum.

Af frumsömdu ritgjörðunum í 1. ári Fjölnis kveður langmest að Brjefi Tómasar Sæmundssonar frá Íslandi 48.—94. bls.). Í firri hluta brjefsins er skemtileg frásögn um ferð höfundarins heim til Íslands frá Kaupmannahöfn sumarið 1834, enn í síðari hlutanum kennir margra grasa. Þar minnist höfundurinn á ímislegt, sem honum þikir ábótavant, eða heldur, að miðað geti til framfara. Hann talar um þilskipaveiðar, verslun, Reikjavíkurbæ og kaupstaði á Íslandi, skólamál, bókmentir, stjórn landsins, nitsemi frjálsrar stjórnarskipunar, ferðalög á Íslandi og ímsa ósiði, sem tíðkist í ferðalögum, framfarir í búnaði, kæruleisi landsmanna um móðurmál sitt og að lokum um siðferði landsmanna. Það sem tekið er fram frá almennu sjónarmiði í formálanum um stefnu tímaritsins, sínir sig hjer í einstökum atriðum. Í hinum næstu árgöngum Fjölnis eru síðan altaf eftirmæli hins umliðna árs eftir Tómas; skírir hann þar frá helstu viðburðum, sem gerst hafi á árinu, og bendir til þess, sem betur mætti fara í mjög mörgum greinum; einkum lúta þessar greinir Tómasar að atvinnuvegum landsins, sveitabúskap og sjávarútveg, verslun og ifirhöfuð að verklegum framkvæmdum, enn í þeim eru líka mjög athugaverðar bendingar um hið andlega ástand og mentalíf þjóðarinnar[1], ritdómar

1) Meðal annars má geta þess, að Tómasi gramdist mjög, að menn skildu »flitja burt úr landinu, það sem helst á hjer heima og flesta gæti hingað dregið, enn það eru alls konar menjar hinna fornu tímanna«. Hann leggur til, að menn »haldi því öllu saman, sem mannaverk eru á frá umliðna tímanum, hverju nafni sem heitir, og láti það vera í áreiðanlegri geimslu, annaðhvort við skólann eða bókasafnið í Reikjavík, því varla er nokkur sá hlutur, ef hann hefur á sjer ellimerki, að ekki sje mikils metinn, þegar fram líða stundir og vjer förum betur að skinja, hvílík nauðsin er á að kunna góð

um niútkomnar bækur, athugasemdir um landstjórn og tillögur um fulltrúaþing á Íslandi, sem þá var mikið áhugamál allra þeirra, sem nokkuð hugsuðu um hag landsins (sbr. Fjölni 4. ár, 1838 II, 45. bls.). Það er eigi auðvelt, síst firir mann, sem hvorki er búhöldur nje hagfræðingur, að rekja þau áhrif, sem þessar ritgjörðir Tómasar hafa haft á landa hans, enn óhætt er að fullirða, að hann hefur með þeim sáð mörgu því frækorni í hjörtu samtíðarmanna sinna, sem síðan hefur borið margfaldan ávöxt. Röksemdaleiðsla hans er víðast sannfærandi, niðurskipunin ljós, orðfærið hreint og eðlilegt og laust við alla sundurgerð, og öll meðferð hans á efninu lísir því, að hugur filgir máli, og að hann hefur ekki neitt annað firir augum enn heill fósturjarðar sinnar. Tómas fór mjög sjaldan í greinum sínum út firir Ísland. Hann einn var búsettur á Íslandi af útgefendum Fjölnis, og hann hlaut því að sjá best, hvar skórinn krepti.

Aptur á móti renna hinir útgefendurnir, sem í Höfn sátu, augum sínum til útlanda. Þeir vilja veita þeim straumum, sem þá vóru ríkastir í bókmentum Norðurálfunnar, ifir Ísland og frjófga með því hinn innlenda jarðveg. Brinjólfur Pjetursson er sá, sem minst liggur eftir af þeim fjelögum í hinum firstu árgöngum Skírnis, enda mun hann um þessar mundir hafa verið önnum kafinn að lesa undir embættispróf, sem hann leisti af hendi árið 1837[1].

---

skil á hinu umliðna« (Fjölnir 3. ár 1837 II, 27. bls.). Hjer sjest vísirinn til forngripasafnshugmindarinnar árið 1837.

1) Hann mun eiga »Bókafregn« í 1. ári Fjölnis á 95.—96. bls. og ef til vill þíðinguna á köflunum úr riti Lamennais's, »Orð hins trúaða« (135.—140. bls.). Einnig á hann að líkindum einhvern þátt í greininni »Fjölnir» í 4. ári 1838 (I, 3.—19. bls.). Meira á hann ekki í 5 hinum firstu árgöngum Fjölnis.

Þeim mun meira rita þeir Jónas og Konráð. Jónas skrifar í firsta ári Fjölnis ágæta alþíðlega grein náttúrufræðislegs efnis (»um eðli og uppruna jarðarinnar«[1]) og aðra »Af eðlisháttum fiskanna« í öðru ári ritsins, þíðing eftir Cuvier[2]. Jafnframt reindu þeir Jónas og Konráð að örva fegurðartilfinning landa sinna með því að þíða firir þá kafla úr ritum þeirra útlendra skálda, sem þeim þóttu einna fremst, og völdu þeir til þess kafla úr »Reisebilder« eftir Heine og æfintíri eftir Tieck. Kaflinn úr Heine stendur aftast í Reisebilder, og er skrifaður rjett eftir stjórnarbiltinguna frönsku 1830, og lísir undir rós í sárbeittu, nöpru skopi gremju skáldsins ifir því, að »ættjörðin hans, hin ástkæra þíska þjóð«, skuli vera hneppt í þrældóm, og von hans um, að sól frelsisins muni bráðum renna upp firir henni, því að morgunroðinn ljómi þegar — í *vestri*, þ. e. ifir Frakklandi. Það, að þeir fjelagar völdu einmitt þennan kafla úr ritum Heine's til að þíða, sínir, að þeir vildu, að bjarmann af júlíbiltingunni á Frakklandi legði eigi að eins til Þískalands, sem Heine ræðir um, heldur og heim til Islands, og að það er mikið hæft í því, sem Hannes Hafstein gefur í skin[3], að Fjölnishreifingin hafi að nokkru leiti átt rót sína að rekja til þessarar stjórnarbiltingar. Í líka stefnu ganga kaflar tveir, sem þiddir eru úr Lamennais, »Paroles d'un croyant« í 1. ári Fjölnis[4]. Síðari kaflinn endar á þessum orð-

1) Fjölnir 1. ár 1835, 99.—129. bls.

2) Fjölnir 2. ár 1836, II, 3.—14. bls.

3) Jónas Hallgrímsson: Ljóðmæli og önnur rit, Khöfn 1883. VIII. bls.

4) Það er óvíst, hvor þeirra, Konráð eða Brinjólfur, hefur þitt þessa kafla. Á hið síðara bendir það, að þessi þíðing er ekki talin með ritum Konráðs í Erslevs Forfatterlexi-

sjálfs og vilja hans hátignar konungs vors, að því leiti sem ákvæðin og vilji þjóðar vorrar mætti verða með eða móti«. Það er auðsjeð, að ágreiningur hefur verið um þetta atriði meðal undirskrifenda, og að greinin er þannig orðuð, til þess að allir gætu gefið henni jáirði sitt, bæði þeir sem hjeldu fram Reikjavík, og hinir sem hjeldu fram Þingvöllum. Við ávörp þessi snerust hinir íslensku fulltrúar til filgis við Kristensen. Enn niðurstaðan varð sú á þinginu, að það lagði með því, að stjórnarfrumvarpið irði lögleitt first um sinn, þangað til hið nija alþingi hefði íhugað málið að níju; samt sem áður vóru sumar af breitingartillögum Kristensens teknar til greina í varaatkvæði þingsins.

Á öndverðum vetri 1842—1843 fer að lifna ifir Fjölnismönnum. Um það leiti kom Jónas Hallgrímsson heiman frá Íslandi, og við komu þessa ágæta liðsmanns jókst fjelaginu þrek og dugur. Það fer þá að skrá í bók, það sem gerist á fundum, og er fundabók fjelagsins enn til í safni Jóns Sigurðssonar nr. 516, 4to[1]. Hjer má segja að birji nír kafli í sögu Fjölnis, og mun jeg reina að skíra frá henni í stuttu máli eftir fundabókinni og hinum síðari árum Fjölnis.

Firsti fundur, sem bókaður er, var haldinn laug-

---

1) Fundabókin er skrifuð á tvö hefti í fjögra blaða broti, og er hið firra að eins heft í bláa kápu. Firra heftið er alls 20 blöð, og stendur framan á saurblaðinu »Fundabók«, enn nöfn fjelagsmanna skrifuð með eigin hendi framan á öðru blaði. Á þeim 18 blöðum, sem eftir eru, eru skráðir 10 hinir firstu fundir fjelagsins (3. des. 1842—12. mars 1843). Síðara heftið er 54 blaðsíður skrifaðar með mörgum örkum óskrifuðum aftan við, birjar á 11. og endar á síðasta (77.) fundi (15. mars 1843—27. mai 1847).

ardaginn í 7. viku vetrar (= 3. desember) 1842. Vóru fjelagsmenn í Kaupmannahöfn þá 13 að tölu, þeir sem nú skal greina:

1. Gísli Magnússon,
2. Jónas Hallgrímsson,
3. Brinjólfur Snorrason,
4. Brinjólfur Pjetursson,
5. Halldór Kristján Friðriksson,
6. Gísli Thórarensen,
7. Konráð Gíslason,
8. Skúli B. Torlacius,
9. Gunnlaugur Þórðarson,
10. Sigurður Jónsson,
11. Jóhann Halldórsson,
12. Jóhann K. Briem,
13. Grímur Þorgrímsson Thomsen.

Eru 12 hinir firstu hjer taldir í sömu röð sem á 2. blaði fundabókarinnar, enn nafn hins 13. stendur þar ekki, því að hann gekk úr fjelaginu litlu síðar. Flestir munu kannast við nöfn þessara manna án skíringar. Þó skal jeg geta þess, að Sigurður Jónsson er kaupmaður sá, sem lengi var í Flatei. Auk þess er við og við minst á fjelagsmenn, sem heima eru á Íslandi, enn ekki eru þeir nefndir á nafn. Þó sjest það síðar á fundarbókinni, að einn af þeim hefur verið Pjetur Pjetursson, þá prófastur, síðar biskup. Af þeim mönnum, sem nú vóru nefndir, eru 6 hinir sömu, sem verið höfðu í Fjölnisfjelaginu árið 1841, auk Jónasar Hallgrímssonar (Gísli Magnússon, Brinjólfur Pjetursson, Konráð Gíslason, Jóhann Halldórsson, Grímur Thomsen og Pjetur Pjetursson), enn 3 af þeim fjelagsmönnum, sem verið höfðu 1841, eru nú ekki á fjelagaskránni, annaðhvort af því að þeir hafa sagt sig úr fjelaginu (Hannes Árnason?), eða af

pví að þeir eru taldir meðal hinna ónefndu fjelagsmanna heima á Íslandi (Eggert Briem, Jón Pjeturssson). 7 níir fjelagsmenn hafa gengið í fjelagið síðan 1841.

Fjelagið á sjer enn þá engin skrifuð lög — það er svo að sjá sem hætt hafi verið við lagasmíðina árið 1841, þegar ágreiningurinn varð. Á firsta fundi er kosin nefnd til að semja lögin: Brinjólfur Pjetursson, Gísli Magnússon og Grímur Thomsen. Leggur nefndin fram frumvarp til laga á næsta fundi (10. des. 1842). Verða um þau allharðar umræður og spratt af því ágreiningur milli Gríms Thomsens og og annara fjelagsmanna, og lauk svo að Grímur sagði sig úr fjelaginu. Eftir tillögu Konráðs er því bætt inn í lögin, að fjelagsmenn vilji hafa alþing á Þingvöllum, halda málinu sem hreinustu og varðveita þjóðerni Íslendinga. Einn fjelagsmanna — Jóhann Briem — lísir ifir því, að hann sje því mótfallinn, að þingið sje haft á Þingvöllum, enn allur þorri er með því. Síðan halda lagaumræðurnar áfram á hinum næstu fundum, þangað til eftir niár 1843. Fer þá fjelagið að hugsa um að koma út tímariti sínu, og er ákveðið á fundi 28. janúar 1843, að það skuli heita Fjölnir. Upp frá því og fram á vor er það helsta umræðuefnið á fundum, hvað taka skuli í ritið, og eru rit þau, sem bjóðast, first lesin upp á fundi, og síðan skorið úr því með atkvæðafjölda, hvort þau skuli tekin eða ekki; því næst er kosin nefnd til að ifirfara ritið og laga á því málið eftir samkomulagi við höfund eða þíðanda. Um rjettritunina er það samþikt á fundi 15. mars 1843, að hún skuli vera sem á 4. ári Fjölnis. Með vorinu eru lagaumræðurnar teknar upp aftur og leiddar til likta og lögin skrásett og sendar afskriftir af þeim ásamt brjefi til

fjelagsmanna á Íslandi. Lögin eru enn til í safni Jóns Sigurðssonar, og eru prentuð hjer sem 5. filgiskjal[1]. Þar er eiða firir nafni fjelagsins, og ber það til, að fjelagsmenn komu sjer ekki saman um nafnið, og var því frestað að ákveða um það.

Það sjest ekki beinlínis á fundabókinni, hver hafi verið forseti fjelagsins, þegar farið var að skrá fundi, enn af öllum líkum má ráða, að það hafi verið Gísli Magnússon, því að hann skrifar jafnan firstur nafn sitt undir fundabókina. Á fundi 16. apríl 1843 er hann kosinn forseti til næsta árs.

Þetta fjelag heldur síðan áfram að gefa út Fjölni, þangað til síðasta ár hans — hið 9. — kemur út árið 1847. Fundi átti eiginlega að halda einu sinni í hverri viku, enn oft verður hlje á þeim, einkum á sumrin. Á fundum eru rædd íms málefni, bæði þau er varða fjelagið sjerstaklega, og önnur, sem almenning varða.

Að áliðnu sumri 1843 kom þáverandi prófastur Pjetur Pjetursson heiman frá Íslandi til Hafnar til þess að láta prenta og halda uppi svörum firir doktors-ritgjörð sína, og var í Höfn um veturinn. Hann er í firsta sinni á fjelagsfundi 9. sept. 1843, og stingur þá upp á, að fjelagsmenn stofni sjálfir hófsemdarfjelag, og var hann og Konráð Gíslason kosinn í nefnd til að semja lög handa því, og vóru þau samþikt á næsta fundi, 16. sept. Á þeim fundi afsalar Gísli Magnússon sjer forsetastörfum, og var Pjetur Pjetursson kosinn í hans stað á fundi 25.

1) Þrjár firstu greinirnar eru prentaðar í Andvara 14. ári á IV. bls. neðanmáls, og gefið í skin, að Fjölnismenn hinir eldri hafi samþikt þessi lög, þegar Fjölnir first kom út árið 1835, enn það er eigi rjett.

september. Þegar Pjetur prófastur fór heim um vorið eftir, var Brinjólfur bróðir hans kosinn forseti, og var hann það síðan þangað til hann skilaði af sjer á fundi 19. október 1845 í hendur H. Kr. Friðrikssonar, sem hlaut kosningu í hans stað og hafði hann síðan forsetastörf á hendi, meðan fjelagið lifði. Upp frá því fer framkvæmdum fjelagsins að hnigna; fundir verða strjálir og árið 1846 varð hlje á því, að Fjölnir kæmi út, og loksins deir fjelagið út af vorið 1847. Það ár kom Fjölnir út í síðasta sinn. Það kom firir ekki, þó að reint væri að ingja upp fjelagið með því að taka inn nija fjelagsmenn snemma á árinu 1847, og vóru það þessir: Gísli Gíslason, Stefán Helgason, Sæmundur Gunnlaugsson, Jónas Guðmundsson, Benedikt Gröndal og Jón Þórðarson (Thoroddsen). Einhver helsta orsökin til þessarar hnignunar virðist hafa verið fráfall Jónasar Hallgrímssonar, sem dó 26. maí 1845, því að hann var einn hinn besti liðsmaður fjelagsins, jafnvel eftir það að hann var dáinn. Meginið af síðasta ári Fjölnis eru rit hans í óbundnu máli, sem ekki komust að í útgáfu Ljóðmæla hans árið 1847. Meðfram mun það og hafa valdið afturkippnum, að allmargir Fjölnismenn hafa með tímanum sætt sig við að hafa alþingi í Reikjavík, og bar þeim og Fjelagsritamönnum þá lítið á milli, svo að minni ástæða þótti til að halda úti fleiri tímaritum í Höfn enn Fjelagsritunum. Síðasti fjelagsfundur Fjölnismanna, sem bókaður er í fundabókinni, var haldinn 27. maí 1874; er þar ekki nein ákvörðun um, að fjelaginu skuli slitið, heldur sofnar það út af þegjandi á 2. stjórnarári H. Kr. Friðrikssonar.

Á fundabókinni má sjá, hver sje höfundur að flestum þeim ritum, sem tekin vóru í 4 hina síðustu

árganga Fjölnis, og mun jeg nú skíra frá því í stuttu máli.

Það sem einkum príðir þessa hina síðari árganga, það eru kvæði Jónasar Hallgrímssonar. Einkennilegt er það, að nú koma út frá honum í Fjölni 30 kvæði á árunum 1843—1845, enn í hinum firri árgöngum Fjölnis vóru fá kvæði eftir hann, eins og áður var á vikið. Jeg þarf ekki að telja þessi kvæði upp, því að allir þekkja þau, eða geta að minsta kosti sjálfir fljótt sjeð, hver kvæði Jónas á, með því að fletta upp í kvæðabók Jónasar. Þau hafa alla hina sömu kosti sem kvæði hans í hinum firri árum Fjölnis, og með þeim einum, þó ekki væri með öðru, helga þessi ár Fjölnis sjer sæti hátt á bekk í bókmentum vorum. Eigi er heldur þörf á að greina sjerstaklega, það sem Jónas á í óbundnu máli í þessum árgöngum Fjölnis, því að í 9. ári Fjölnis á 5. bls. eru taldar upp þær greinir, sem Jónas á í undanfarandi árgöngum hans, og það sem hann hefur skrifað í 9. ár Fjölnis, er alt prentað í hinni síðari útgáfu »Ljóðmæla« hans (1883). Þess eins ber að geta, að Jónasi er þar og í Fjölni 9. ári 1847 á 5. bls. ranglega eignuð sagan »Góður snjór«, sem prentuð er í 6. ári Fjölnis 1843 á 84.—86. bls. Sú saga er samkvæmt fundabókinni þídd af Skúla Thorlacius[1]. Líka á Gísli Magnússon nokkurn þátt í þíðingunni á greininni »Um flóð og fjöru« í 6. ári Fjölnis á 44.—54. bls.

Jeg hef áður drepið á það, að hinir síðari Fjölnismenn muni hafa hneigst að skoðunum Tómasar Sæmundssonar í stjórnarskipunarmálinu, og einkum

---

1) Einkunnarorðin »Snælega snuggir« o. s. frv., sem standa ifir sögunni, vóru sett eftir tillögu Jóhanns Briems.

haldið því fast fram, að alþing irði sett á Þingvöllum. Þetta er tekið fram í lögum fjelagsins, og kemur ljóslega fram í kvæðum Jónasar Hallgrímssonar í 6. ári Fjölnis. Kvæði það, sem prentað er neðanmáls á 9. og 10. blaðsíðu sem nokkurs konar viðbætir við kvæðið »Alþing hið nija«, mun Jónas hafa ort rjett eftir það, að alþingistilskipunin kom út 8. mars 1843[1], og lætur hann þar í ljósi gremju sína ifir þessum málalokum og aðgjörðum embættismannanefndarinnar í Reikjavík. Í sama ári Fjölnis á 20. blaðsíðu eru hin fögru erfiljóð Jónasar eftir Bjarna Thórarensen, og þar er í þetta þjóðkunna erindi:

Hlægir mig eitt það, að áttu
því uglur ei fagna,
ellisár örninn að sæti
og á skildi horfa
hrafnaþing kolsvart í holti
firir haukþing á bergi.
Floginn ertu sæll til sóla,
þá sortnar hið neðra.

Þetta erindi mun einnig vera ort eftir það, að alþingisskipunin kom út. Það ber sjálft með sjer, að það er til orðið nokkru eftir dauða Bjarna, og eftir það, að búið er að lögleiða, að alþingi skildi vera í Reikjavík[2].

---

1) »Alþing hið nija« er samkvæmt fundabókinni borið upp og tekið í Fjölni á fundi 11. febr. 1843, enn viðbótin á fundi 12. apríl 1843; kvaðst Jónas *»eins og nú væri komið«* ekki geta látið firra kvæðið (ɔ: »Alþing hið nija«) fara frá sjer viðbótarlaust.

2) Þetta er ekki því til firirstöðu, að hin erindin í kvæði þessu sjeu ort, þegar Jónas fjekk fregnina um andlát Bjarna í Glaumbæ sumarið 1841 (Ljóðmæli 1883, á XXXIII. bls.). Á það bendir upphafið: »Skjótt hefur sól brugðið sumri«.

Annars var Brinjólfur Pjetursson vafalaust fremstur stjórnmálamaður í flokki Fjölnismanna, og hann einn ritar um stjórnmál í óbundinni ræðu. Í 7. ári Fjölnis er grein eftir hann »Um alþingi« á 110.—136. bls., heldur hann þar fast og einarðlega fram ímsum nauðsinlegum umbótum, sem gera þurfi á alþingistilskipuninni, meðal annars þeirri, að alþingi sje haft á Þingvöllum. Sömuleiðis hefur hann skrifað grein um fjárhag Íslands í 8. ári Fjölnis á 1.—21. bls. Auk þess hefur Brinjólfur samið athugasemdina við bindindisritgjörðina í 7. ári Fjölnis á 59.—62. bls. neðanmáls um aðflutning áfengra drikkja til Íslands árið 1841, og Skírsluna um bindindisfjelög í 9. ári á 87.—94. bls.

Gísli Thórarensen var einn af hinum starfsömustu fjelagsmönnum. Hann á »Bókasöluna« í 6. ári Fjölnis (á 75.—83. bls.), tvö kvæði í 7. ári (á 106. —109. bls.), Skírslu um íslensk bindindisfjelög í 8. ári (á 77.—88. bls.), og auk þess samdi hann ásamt Konráði Gíslasini Bókafregn í 6. ári á 59.—74. bls; í Bókafregn þessari á Gísli firir víst ritdóminn um Ljóðasmámuni Sigurðar Breiðfjörðs og líklega athugasemdina um Kristindómsbók sjera Sigurðar Sivertsens, enn hitt mun flest vera eftir Konráð.

Pjetur Pjetursson hefur skrifað »Um tekjur presta á Íslandi« í 7. ári á 3.—26. bls. Ritgjörð þessi var lesin upp á fundum fjelagsins 16. des. 1843, 3. febrúar 1844 og 10. sama mánaðar, og sje það þessi ritgjörð, sem átt er við í hinni síðari útgáfu Ljóðmæla Jónasar Hallgrímssonar á XXXVI. bls.,

---

Erindinu »Hlægir mig eitt það að áttu« er auðsjáanlega bætt síðar inn í kvæðið, enda slítur það í sundur hugsunarþráðinn í því.

ber að leiðrjetta það, sem þar segir, samkvæmt þessu.

Ritgjörðin »Um bindindisfjelög« í 7. ári Fjölnis er eftir marga; upphafið á Brinjólfur Snorrason (32. —39. bls.), þíðingin úr umburðarbrjefinu ameríkska (39.—58. bls.) er eftir Brinjólf Snorrason og H. Kr. Friðriksson, skírslan um íslenska bindindisfjelagið í Höfn (58.—67. bls.) er eftir Pjetur Pjetursson og Gunnlaug Þórðarson, og niðurlag ritgjörðarinnar (67. —70. bls.) eftir Pjetur Pjetursson; áður hef jeg getið þess að athugasemdin á 59.—62. bls. væri eftir Brinjólf Pjetursson.

Næst Jónasi Hallgrímssini hefur Konráð Gíslason ritað mest í 4 hina síðustu árganga Fjölnis. Hann hefur skrifað Bókafregnirnar í 6., 7. og 8. ári, að fráteknu því, sem Gísli Thórarensen á í Bókafregn 6. árs, og einum ritdómi um Stafrofskver Pjeturs Guðjónssonar, sem Halldór Friðriksson hefur skrifað í Bókafregn 8. árs[1]. Ritgjörðin um stafsetning í upphafi 7. árs (1.—3. bls.), um latínuletrið í 8. ári (28.—33. bls.),[2] og æfisaga Jónasar Hallgrímssonar í 9. ári (1.—6. bls.) eru sömuleiðis eftir hann. Eins og það er víst, að Jónas ákveður skáldskaparstefnu tímaritsins, eins er hitt víst, að Konráð er leiðtogi þess í öllu því, sem lítur að stafsetningu og málfegurð, og mun jeg nú fara fám orðum um hvort þessara atriða firir sig.

---

1) Fjölnir 6. ár 1843, 59.—74. bls. 7. ár 1844, 71.—104. bls. 8. ár 1845, 57.—76. bls. Heirt hef jeg, að Brinjólfur Pjetursson eigi ritdóminn um »Auglísing um Vesturamtsins opinbera búskapar fjársjóð« o. s. frv. í 6. ári á 61. bls., enn ekki veit jeg sönnur á því.

2) Skoðanir Konráðs um latínuletrið eru mjög svipaðar Rasks.

Þess er áður getið, að það hafi verið samþikt á fundi Fjölnismanna, að rjettritunin á 6. ári Fjölnis skildi vera hin sama sem á 4. ári hans, og með þeirri stafsetningu kom 6. ár út árið 1843. Vorið 1843 vóru lög fjelagsins send fjelagsmönnum heima á Íslandi og brjef með, og verða þá umræður um það í fjelaginu á tveim fundum seint í aprílmánuði (26. og 30. apríl), hvort rjettritunin á lögunum og brjefinu skildi vera eins og á Fjölni það ár eða fara lengra í framburðar áttina, og var hið síðara samþikt eftir tillögu Konráðs; þannig skildi rita *b* firir *f* firir framan *ð, l n; öi* f. *au; ai* f. *æ; f* skildi skrifa firir framan *t*, og *g* skildu stungin, þegar svo bæri undir o. s. frv. Enn litlu síðar hið sama vor virðist hafa komið einhver afturkippur í Konráð, því að á fundi 24. júní sama ár stingur hann upp á því, að nefnd sje kosin til að gera frumvarp til fastra stafsetningar laga. Var það gjört og jafnframt samþikt, að allir fjelagsmenn mætti koma á nefndarfundina og eiga atkvæði. Konráð var kosinn forseti í nefndinni og var málið síðan rætt á fundum 15. og 22. júlí, enn ekki var það til likta leitt að sinni, heldur lá það í dái til haustsins. Þá var á fundi 14. október 1843 kosin nefnd enn á ní til að gera uppástungu um stafsetning, og urðu þeir Konráð, Brinjólfur Pjetursson og Gísli Magnússon firir kosningu. Bar sú nefnd fram tillögur sínar um stafsetninguna á fundi 9. des. sama ár, og vóru þær samþiktar. Því miður er ekki neitt ágrip í fundabókinni af umræðunum um stafsetninguna, enn niðurstaðan sjest á stafsetningunni á 7.—9. ári Fjölnis. Þessi rjettritun er í öllu verulegu hin sama, sem Halldór Friðriksson tók síðan upp og hefur kent nú í meira enn mannsaldur í lærða skólanum, og hefir hún þaðan

breiðst svo út um landið, að hún mun vera hin algengasta stafsetning nú sem stendur.

Það getur ekki verið neinum vafa bundið, að Konráð Gíslason er faðir þessarar stafsetningar í flestum verulegum atriðum, og sjest það bæði á því, að hann var frumkvöðull málsins á fundi Fjölnismanna og forseti nefndarinnar, sem kosin var, og eigi síður á hinu, að hann rökstiður flestar þær breitingar, sem gerðar vóru frá hinni almennu rjettritun, í Bókafregnunum í 7. og 8. ári Fjölnis[1]. Hann tekur einnig sjálfur upp þessa rjettritun í bókum þeim, sem hann sjálfur gefur út, t. d. í »Frumpörtunum« (1846) og í dönsku orðabókinni (1851). Með þessu er engan veginn sagt, að hin níja stafsetning sje eingöngu Konráðs verk, eða að aðrir fjelagsmenn eigi engan þátt í henni í einstökum atriðum, enn það er Konráð, sem hefur ráðið aðalstefnu stafsetningarinnar og komið á hana skipulagi, staðfestu og samkvæmni, að svo miklu leiti sem unt var.

Enn hvernig stendur á þessum snöggu umskiftum? Hvað kemur til þess, að Konráð fær því framgengt á Fjölnisfundum 26. og 30. apríl, að fjelagið tekur upp rjettritun, sem gengur enn þá lengra í framburðar áttina, enn Fjölnir hafði nokkru sinni áður farið, og kemur svo fram á fundi tæpum 2 mánuðum síðar og tekur upp málið af níju og fær fjelags-

---

1) Sjá t. d. það sem hann segir um *tt* f. *dt* í 7. ári Fjölnis á 74.—75. bls., um tvöföldun samhljóðanda firir framan annan samhljóðanda og granna stafi á undan -ng s. st. á 75. bls., um *-ur* firir *r* s. st. á 77. bls., um *rjeð* f. *rjeði* og *mega*, *segja* f. *meiga*, *seigja* s. st. á 88. bls., um *tt* firir *kt* í *þótti* o. s. frv. s. st. á 95. bls., um *ft* og *pt* í 8. ári á 62. bls., um »*jafndýrt*« eða »*jafn-dýrt*« o. s. frv. firir »jafn dýrt« s. st. á 63. bls. o. s. frv.

menn síðan til að taka upp hina algengu rjettritun með nokkrum verulegum breitingum? Grein Konráðs um stafsetning í 7. ári Fjölnis svarar þessari spurningu að nokkru leiti. Þar segir svo (á 2. bls.): »Nú þikir sumum takandi í mál að vera kir, þar sem komið er, með stafsetninguna á riti voru; enn þeir eru fáir, sem betur fer, og aldrei kom hinum firri hlutaðeigendum Fjölnis það í hug að nema staðar á miðri leið — sem ekki væri til annars enn auka þann rugling, sem er áður á stafsetningu íslenskra bóka. Eftir þessu er ekki annar kostur firir höndum enn hverfa aftur á hina breiðu slóð, eða rjettara að segja á þá villustigu, er liggja í ótal króka hver innan um annan, eins og fjárgötur«. Af þessu má ráða, að Konráð hafi sjeð, að honum var annaðhvort að gera, að hrökkva eða stökkva, að hann varð annaðhvort að koma nírri hreifingu á rjettritunarmálið, ef duga skildi, með því að ganga enn lengra í framburðaráttina, eða »hverfa aftur á hina breiðu slóð«, sem hann kallar. Fjölnir hafði nú um svo mörg ár komið út með hinni níju rjettritun, enn fáir vildu verða til að taka hana upp. Hún var frá upphafi ekki sjálfri sjer samkvæm, að svo miklu leiti sem framburðurinn var ekki *einkaregla* hennar, sem Konráð sagði hann ætti að vera. Hún var ekki og átti ekki frá upphafi að vera nema firsta fótmál í þá átt að gera stafsetninguna samhljóða framburði — það var ekki tilgangur Konráðs »að nema staðar á miðri leið«. Af þessum ástæðum gerir hann first tilraun til að færa sig upp á skaftið nær framburðinum í aprílmánuði 1843, og fær Fjölnismenn til að skrá lög sín og brjefið til fjelagsmanna heima með rjettritun, sem steig feti lengra í framburðar stefnuna enn Fjölnir hafði gert áður. Enn margir fjelags-

menn munu hafa verið því mótfallnir að fara svona langt í riti, sem átti að koma firir almennings sjónir, svo að hann hefur ekki getað fengið því framgengt, að breita rjettritun Fjölnis í þessa átt[1]. Þá var ekki annar kostur firir höndum, enn að »hverfa aftur á hina breiðu slóð« og reina að gera sem best við þá stafsetning, sem þá tíðkaðist, og Konráð líkir við »gamlan bát, lasinn og rifinn og ófæran í allar ferðir«. Eitt var það, sem mun hafa gert honum afturhvarfið að hinni gömlu rjettritun auðveldara. Hann mun hafa langað til að finna að ímislegri ósamkvæmni í þeirri stafsetningu, sem tíðkaðist. Enn hann gat litla von gert sjer um, að athugasemdir hans um það irðu teknar til greina af áhangendum hinnar gömlu stafsetningar, ef aðfinningarnar vóru gerðar frá sjónarmiði framburðarrjettritunarinnar, sem þeir ekki vildu viðurkenna. Miklu fremur gat hann búist við að koma nokkru áleiðis, ef hann sjálfur stæði á grundvelli hinnar gömlu rjettritunar og sindi fram á ósamkvæmni hennar frá hennar eigin sjónarmiði. Merkilegt er það, að því er þetta snertir, að í Bókafregninni í 6. ári Fjölnis, sem filgdi framburðar-rjettritun, eru engar athugasemdir um rjettritun þeirra bóka, sem Konráð þar leggur dóm á, enn í Bókafregnunum í 7. og 8. ári, sem taka upp aftur hina almennu rjettritun, er mjög mikið talað um stafsetning bókanna.

Í ritdómum sínum finnur Konráð Gíslason mjög sjaldan að efni bókanna. Hann leggur first og síðast áherslu á það, að orðfærið sje fagurt og hreint;

1) Sbr. Fjölni 7. ár 1844 á 1.—2. bls.: »eru ekki allir á eitt sáttir um stafsetninguna, þó oss komi vel saman um önnur efni, er snerta rit vort«.

málið er honum firir öllu. Enginn íslenskur ritdómari hefur nokkurntíma verið jafnstrangur og hann í þessu efni, og enginn hefur vandað um það fir eða síðar með jafnmikilli þekkingu og tilfinningu firir því, hvað er fagurt mál og hreint. Bókafregnir Konráðs eru enn í dag sannkölluð gullnáma firir þá, sem vilja vanda mál sitt, og ætti hver sá, sem fæst við ritstörf, að lesa þær rækilega, Hversu ant honum var um málið, það sjest best á orðum hans í upphafi Bókafregnarinnar í 7. ári Fjölnis. Þessi orð eru svo full af mælsku, svo heit og hjartnæm, og lísa svo vel höfundinum, að jeg get ekki bundist þess að tilfæra hjer dálítinn kafla orðrjettan: »Málið er höfuðeinkenni hverrar þjóðar, og það er ekki einskis vert, hvort því fer fram eða aftur, hvort það er ljótt eða fagurt, og fegurð málsins er ekki komin undir því einu saman, hvernig það er gjört af guði og mönnum firir öndverðu; því ekkert vatn er svo tært, að eigi spillist, þegar það rennur í saurugum farveg—enn farvegur málsins er hugur þjóðarinnar, sem talar það og ritar. Á hverju er þá von af máli voru? Þjóðerni vort, sem einkanlega er fólgið í málinu, hefur verið troðið undir fótum og hörmulega saurgað og svívirt margar aldir í sifellu. Hversu lengi á slíkt fram að fara? Hversu lengi eigum vjer að níðast á sjálfum oss og öllu því, sem oss ætti að vera dírmætast hjer í heimi? Og hvort er fallegra og inndælla, karlmannlegra og betra til afspurnar, að láta alla hluti liggja í þessari deifð og þessum andlega svefni, og geta aldrei verið ánægður við sjálfan sig, ellegar að rísa upp hver með öðrum, og leggja á það allan hug og allan mátt að bæta sífeldlega þjóðarhag vorn, og vita svo, hvað vjer komumst? Enn engin endurbót er líkamleg í raun

og veru, þó það kunni að sínast svo, heldur andleg. Auður og fullsæla fjár, hreisti og heilsa, fjör og frjálsleikur líkamans, skin og skírleiki, dáð og digð, traust og trú hugarins, og í stuttu máli hverskonar frægð og fremd, indi og unað —' alt er þetta komið undir andanum. Andi hvers einstaks, hversu vel sem hann er af guði gjör, verður að engum þrifnaði nema hann njóti annara að og taki birtu af hugum annara. Enn hver er þá þessi geisli, sem hugur sendir hug? Hvert er þetta ljós, degi bjartara og sólu varmara, sem skín ifir lönd og líði, og sínir mönnunum, að þeir eru menn, enn ekki skinlaus kvikindi? Hvað er það annað enn málið, óskabarn mannlegs anda. Og sje nokkur sá, að minsta kosti í mentaðra manna tölu, að einu gildi, hvernig málið er og hvernig með það er farið — er honum þá ekki nærri því ofnefni að heita maður?«

Þessar og þvílíkar hugleiðingar vöktu firir Konráði, þegar hann var að vanda um orðfærið á ritum þeim, sem hann dæmdi um í Fjölni, og enginn getur borið á móti því, að viðleitni hans í þessa átt bar góðan ávöxt. Málið á ritum þeim, sem út komu um og eftir miðja þessa öld er stórum betra, enn það var, þegar Fjölnir kom first til sögunnar. Og þó Fjölnir hefði ekkert gott gert annað enn þetta, verður ekki sagt, að hann hafi unnið firir gíg.

## VII.

Nú vík jeg aftur þangað, sem fir var frá horfið Konráð Gíslason flutti út af Garði sama ár, sem Fjölnir kom út í firsta sinn, árið 1835. Fjárhagur hans var þá og lengi síðan mjög erviður, og safnaði hann skuldum, enn ekki bilaði kjarkur hans firir því. Í

brjefi til mín, dagsettu 17. apríl 1888, segir hann meðal annars: »»Nógir eru helvítis peningarnir, ef ekki vantaði annað!« sögðum við Brinjólfur heitinn Pjetursson á ingri árum okkar, og hugguðum okkur með því í skildingaskorti«. Um hríð bjó hann í Borchs Collegium og komst þar í kinni við ungan mann danskan, P. G. Thorsen, sem var þar samtíða honum og síðar varð bókavörður við háskólasafnið í Kaupmannahöfn. Konráð lagði þá mesta stund á fornrit íslensk, og dróst Thorsen í það með honum. Mun Konráð hafa kent honum íslensku. Komu þeir sjer þá saman um að gefa út íslenska fornsögu og völdu til þess Hrafnkels sögu Freysgoða. Sagan kom út í Kaupmannahöfn árið 1839 undir nafni beggja þeirra, enn þó má fullirða, að Konráð átti mestan þátt í þessu starfi. Útgáfan er vönduð að öllum frágangi, enn of djúpt er það tekið í árinni að segja, að frá henni megi telja aldaskifti í útgáfum íslenskra fornrita, eins og Finnur Jónsson kemst að orði í eftirmælum sínum eftir Konráð[1]. Vafalaust hafa útgefendurnir safnað öllum orðamun handritanna með mikilli samviskusemi og flokkað handritin með þeim skarpleika, sem Konráði var lagið[2]. Enn þeir prenta

---

1) Arkiv for nordisk Filologi 1891 á 294. bls.

2) Finnur Jónsson gerir hinum eldri útgefndum rangt til, þegar hann segir, að þeir hafi ekki kunnað að flokka handrit. Hannes Finnsson hefur til dæmis flokkað svo vel Landnámuhandritin í formálanum firir Landnámu sinni, að hinir síðari útgefendur hafa haft þar litlu við að bæta. Guðmundur Magnússon kemst í flestu að líkri niðurstöðu um flokkaskipun Egilssögu handritanna eins og Finnur Jónson í í útgáfu sinni, og sjer, að Á. M. 132 fol. er besta handritið (Egils saga, Havniae 1809, IX. bls.). Og fleiri dæmi mætti til tína.

ekki orðamuninn í útgáfunni, svo að það er örðugt að leggja dóm á hana að þessu leiti. »Það var tilgangur útgefendanna, að sína hina fornu íslensku í þeirri mind, sem þeir hjeldu rjettasta«, segir Konráð sjálfur í Fjölni 6. ári 1843 á 66. bls.[1], enn síðar, þegar Konráð kintist betur fornmálinu, sá hann missmíði á þessu verki sínu, og hefur sjálfur tekið fram, það sem helst er ábótavant, á hinum umrædda stað í Fjölni 1843. Það er að eins eitt atriði í útgáfunni, sem kalla má vísi til merkilegra nímæla í útgáfum fornrita, og það er það, að hið eina skinnblað, sem til er úr sögunni, er prentað aftan við hana nákvæmlega stafrjett, og það, sem bundið er, sett á milli sviga.

Sama árið, sem Hrafnkelssaga kom út, varð Konráð *Stipendiarius Arna-Magnæanus*; upp frá því gefur hann sig allan við íslenskri tungu og íslenskum fornritum. Einkum og sjer í lagi var það nú orðin skilda hans að kinna sjer og nota sem best það dírmæta safn af íslenskum handritum, sem kent er við Árna Magnússon. Áhugaleisi það á náminu, sem glapti hann á hinum firstu stúdenta árum hans, er nú með öllu horfið, og mörg stórkostleg áform vísindalegra rita vakna í sálu hans.

Um þessar mundir eða nokkru fir tekur hann að semja danska orðabók með íslenskum þíðingum í fjelagi við Jóhann Halldórsson. Jóhann tók að sjer að semja síðari hlutann (M—Ö), enn dó frá þessu starfi 1844, og hafði þá að eins kastað upp M og mestu af N. Konráð tókst þá einn á hendur þetta ifirgripsmikla verk og vann að því, þangað til orðabókin kom út árið 1851 og var eigi minni enn 600

1) Sbr. útgáfuna sjálfa, formálann á 24.—26. bls.

blaðsíður í arkarbroti. Það sem einkum hvatti Konráð til þessa starfs, var áhugi hans á að hreinsa íslenskuna af dönskuslettum. Honum gramdist það, að lærðu mennirnir hugsuðu flest á dönsku og og klæddu því hugsanir sínar í danskan búning, jafnvel þegar þeir töluðu eða skrifuðu á íslensku. Enn hann sá líka, að þeim var nokkur vorkunn, þar sem þeir ekki höfðu neinn áreiðanlegan leiðarvísi í því, hver væri hin rjetta íslenska þíðing danskra orða og talshátta. Slíkan leiðarvísi vildi hann gefa löndum sínum, og hann gerði það. Engin bók, sem út hefur komið á þessari öld, hefur átt jafnmikinn þátt í að útríma dönskublendingnum úr tungu vorri eins og þessi. Áhrif hennar á ritmál vort hafa verið fjarska mikil og væri hægt að sanna það með mörgum dæmum, ef tími og rúm leifði. Hún hefur nú í 40 ár kent ungum og gömlum eigi að eins að skilja dönsku heldur og að þíða hana á hreina íslensku. Þíðingar orðanna eru vanalega smellnar og rammíslenskar, og þó að það komi stundum firir, að það finnist ekki í orðabókinni, sem verið er að leita að í þann svipinn, þá má segja slíkt hið sama um allar orðabækur. Tilvitnanir þær til fornrita íslenskra, sem í bókinni eru, auka og mikið mæti hennar, og veita henni vísindalegt gildi.

Þegar Konráð var orðinn stipendiarius Arna-Magnæanus, var hann vakinn og sofinn í lestri íslenskra skinnbóka. Hann fer nú að safna til fornískenskrar hljóðfræði, og ávöxturinn af starfi hans sjest á hinu ágæta riti »Frumpartar íslenskrar tungu í fornöld«, sem kom út árið 1846 á kostnað bókmentafjelagsins. Það má með sanni segja, að með þessu riti hefjist ní öld í íslenskri málfræði og útgáfum fornískenskra rita. Í formála bókarinnar lísir höfundurinn 23 ís

lenskum og norrænum skinnbókum með þeirri nákvæmni, að sliks höfðu aldrei fir sjest dæmi, og lætur prenta sínishorn af hverri skinnbók, þannig að lína svarar línu, orð orði, stafur staf, band bandi, punktur punkti. Jón Sigurðsson hafði reindar áður í 1. bindi af Íslendinga sögum (prent. í Kmh. 1843) látið prenta sínishorn af gömlum handritum með mjög mikilli nákvæmni. Enn líklegt er, að Konráð hafi í þessu efni haft áhrif á hann beinlínis eða óbeinlínis. Konráð sá það, að grundvöllurinn undir allri vísindalegri þekkingu á fornmálinu eru fornritin sjálf, óbjöguð að öllum ritshætti, og að hver sù útgáfa þeirra, sem ekki tekur nauðsinlegt tillit til þessa, er óhæf og ónóg til málfræðislegra rannsòkna. Síðan hafa margir útgefendur fetað í fótspor Konráðs í þessu efni, svo að nú eru til allmargar ágætlcga vandaðar útgáfur af íslenskum skinnbókum. Meðal handrita þeirra, sem Konráð lísir í formálanum, eru sumar hinar elstu og merkustu skinnbækur í safni Árna.

Á þessum grundvelli er reist hin íslenska hljóðfræði, sem Konráð setur fram í »Frumpörtum íslenskrar tungu«. Áður höfðu menn verið á þeirri skoðun, að svo að segja enginn munur væri á fornri og nírri- íslensku, og jafnvel Rask hafði haldið þessu fram í hinum eldri ritum sínum, enn þegar hann fór að rannsaka betur fornritin sjálf, sá hann, að munurinn var þó töluverður, og síndi fram á það í einstökum atriðum. »Frumpartar« Konráðs mega þó heita hið firsta stóra stig í þessa átt, að sína fornmálið, eins og það er, og gera rjettan greinarmun á því og níju máli. Konráð játar ekki að neitt orð eða nein orðmind sje forn, nema hann geti sínt það og sannað með dæmum úr íslenskum fornritum. Hann færir alstaðar sönnur á mál sitt með tilvitnun-

um í handritin, svo að þær munu skifta þúsundum í bókinni allri. Auðsjeð er, að höfundurinn hefur haft firir sjer málfræðisbækur Rasks og þó einkum hina þísku málfræði Jakobs Grimms, sem í mörgu hefur verið firirmind hans[1], enn hann lætur sjer ekki nægja að tiggja upp aftur það, sem þessir miklu menn höfðu sagt, heldur prófar alt með sjálfstæðri rannsókn, og kemst langtum lengra enn þeir í sannri þekkingu á fornmálinu. Hann segist sjálfur ekki bjóða annað í bók sinni »enn ófullkomna undirstöðu í hljóðfræði forntungu vorrar«, enn þessi undirstaða er þó það hellubjarg, sem síðari höfundar — meðal annara Konráð Gíslason sjálfur — hafa reist á aðra smíð enn þá fullkomnari, hljóðfræði forntungunnar, eins og hún nú er orðin, aukin og endurbætt.

Árið 1839 í nóvembermánuði kom til Kaupmannahafnar enskur maður að nafni Richard Cleasby. Hann langaði til að læra íslensku og fjekk kenslu hjá Konráði Gíslasini. Cleasby var auðmaður, enn Konráð fjelítill, og komu þeir sjer nokkru síðar (í aprílmánuði 1840) saman um það, að Konráð skildi fara að safna til fornískenskrar orðabókar, sem svo skildi koma út á kostnað Cleasbys og með nafni hans, enn Cleasby skildi borga Konráði 40 ríkisdali á mánuði hverjum firir starf hans. Það var einn af þessum vanalegu samningum milli auðmannsins, sem ekkert veit nje getur, og fátæklingsins, sem hefur góða hæfilegleika; auðmaðurinn lætur peningana, sem hann hefur, firir það starf, sem hann vantar vit og þekkingu til að leisa af hendi, og eignar sjer svo að sjálfsögðu allan sóma af starfinu, sem hann hefur

1) Til að minda í hinum mörgu dæmum sem Konráð tilfærir líkt og Grimm.

keipt, og oft hafa fátækir Íslendingar fir og síðar undirskrifað slíka samninga. Cleasby kunni auðvitað ekkert í íslensku, annað enn það lítið, sem hann lærði af Konráði og öðrum löndum í Höfn. Því til sönnunar skal jeg taka það fram, að hann skrifast á við Íslendinga á *dönsku*, og getur ekki einu sinni skrifað hana óbjagaða[1]. Því viðbjóðslegra er að lesa alla þá lofdírð, sem sett er upp á hann í íslenskensku orðabókinni, sem kend er við nafn hans. Hann er þar kallaður »einhver hinn eljumesti vísindamaður, sem nokkurntíma hefur lifað«, og gerður að eins konar »Baldri« meðal málfræðinga[2]. Sannleikurinn er sá, að Konráð Gíslason vann firir þennan mann í 7 ár og firir erfingja hans í önnur 7, eins mörg ár samtals og Jakob vann firir Rakel, og safnaði með aðstoð ímsra Íslendinga öllu eða mestöllu efninu í orðabók þá, sem síðar kom út með nafni Cleasbys. Enn síðan, þegar að því kom, að mætti fara að uppskera ávöxtinn af svo margra ára iðju, þá var alt safnið heimtað af honum og varð hann að senda það hálfkarað, eins og það var til Englands. Þar lá það í salti í 10 ár, þangað til Guðbrandur Vigfússon, hinn nafnfrægi landi vor, tókst á hendur að fullkomna það og ljúka við orðabókina, og leisti hann það verk af hendi með þeim flíti og dugnaði, sem honum var laginn, svo að orðabókin kom út undir nafni Cleasbys og hans árið 1874 í Oxford. Guðbrandur skar þannig upp það sem Konráð og aðrir landar höfðu sáð. Enn vafalaust er það, að orðabókin hefði verið bæði vandaðri og áreiðanlegri,

---

1) Brjef frá honum á dönsku til Finns Magnússonar er prentað í »Icelandic-English Dictionary« lxxxiii. bls,, til Brinjólfs Pjeturssonar s. st. á lxxxviii.—lxxxix., xc., og xcvii. bls.

2) S. st. á ciii. bls.

ef Konráði hefði auðnast að fullgjöra hana, því að Guðbrandur stóð langt á baki hans í vandvirkni og í þeirri hinni vísindalegu *málfræðisþekkingu*, sem þarf til að semja orðabók, — jeg segi þetta alls ekki í því skini að jeg vilji gera lítið úr Guðbrandi eða skerða þá virðingu, sem hann í sannleika á skilið. Og það er að minsta kosti óhætt að fullirða, að Cleasby á sjálfur engan staf í orðabókinni, og að sínishorn þau, sem prentuð eru í formála orðabókarinnar og eignuð Cleasby, eru öll frumsamin af Konráði, þó að þau sjeu prentuð eftir afskriftum með hendi Cleasbys. Cleasby má eiga það, að hann borgaði Konráði skilvíslega, það sem hann átti að hafa eftir samningnum, og síndi honum góðvild, þegar hann var sjúkur í augum[1]. Enn enginn getur annað sagt, enn að hann hafi fengið fult endurgjald firir það, sem hann ljet út, í því, sem Konráð vann firir hann, og aldrei mundi Cleasby, ef hann hefði lifað, hafa gert sig sekan í eins hróplegu vanþakklæti og þeir gerðu, sem rituðu formálann firir orðabókinni eftir lát Cleasbys, því að þeir drótta því að Konráði og öðrum Íslendingum, sem að orðabókinni unnu, að þeir hafi haft Cleasby firir fjeþúfu og lítið gert, og reina þannig eftir fremsta megni að svívirða þann mann, sem mest hafði unnið að undirbúningi orðabókarinnar. Og svo smásmuglegir eru höfundar formálans, að þeir láta jafnvel prenta viðurkenningar frá Konráði firir peningum þeim, sem hann hefur tekið á móti af Cleasby, líklega til að sína, hversu vel Cleasby hafi staðið í skilum við hann, og láta menn halda, að ekkert hafi í móti komið frá Konráðs hálfu. Það var sárt firir Konráð að sjá annan

1) Icel.-Engl. Dict. xcvii. bls.

mann njóta árangursins af margra ára störfum sínum og verða þar á ofan firir ástæðulausu ámæli, og frá þessari meðferð mun hafa stafað varkárni sú gagnvart öðrum mönnum og dulleiki, sem á þótti bridda hjá honum á ofanverðri æfi hans.

Konráð hafði þannig eigi minna enn 3 störf firir stafni í einu um og eftir 1840, og öll stór: dönsku orðabókina, »Frumpartana« og íslensku orðabókina. Hann var þá í fullu fjöri á besta aldri og hlífði sjer ekki. Enn þegar minst varði, varð hann veikur í augum, líklega af of mikilli áreinslu við lestur og skriftir og einkum af því að rína í forn og máð, íslensk skinnhandrit. Sjúkleiki þessi birjaði haustið 1842[1] og fór síðan smáversnandi, þangað til hann ljet flitja sig í Friðriksspítala í Kaupmannahöfn 10. mars 1843 til að vera þar undir læknis hendi um hríð. Enn ekki batnaði honum við spítalavistina, enda mun hann altaf hafa reint of mikið á augun. Um sumarið 1843 varð Cleasby að fá Skúla B. Thorlacius til að lesa firir hann, til þess að hann gæti haldið áfram að vinna að orðabókinni[2]. Veturinn 1843—1844 stóð sjúkdómurinn enn í stað, og vildi ekki batna. Þá fór Konráð til Þískalands sjer til heilsubótar sumarið 1844, og var lengst af í bænum Kreischa á Saxlandi; þar var og er enn vatnslækningastofnun, sem læknar flesta sjúkdóma með köldu vatni einu saman, og fjekk Konráð þar talsverðan bata, enn þó mátti hann hvergi nærri heita heill heilsu, þegar hann kom aftur til Hafnar um haustið 1844[3].

Vorið 1845 bjó Konráð í Klausturstræti í Kaupmannahöfn hjá ekkju nokkurri að nafni Karen Sophia

1) Icel.-Engl. Dict. xcii. bls.
2) S. st. xciii. bls.
3) S. st. xcvi—xcvii.

Böhm, dóttur Johan's Pedersen's beikismeistari í Sórey. Hjá ekkjunni var þá sistir hennar, ung og fríð sínum; lagði Konráð hug á hana, og hjetu þau hvort öðru eiginorði[1]. Þetta hið sama vor, 26. maí, dó ástvinur Konráðs, Jónas Hallgrímsson, og varð hann mjög harmdauði öllum þeim, sem hann þektu, enn þó einkum Konráði og Brinjólfi Pjeturssini. Konráð skrifaði samsumars ættingjum Jónasar og fjekk hjá þeim leifi til að að láta prenta kvæði hans og önnur rit. Í Fjölni 1847, 9. ári var flest það prentað, sem Jónas hafði eftir sig látið í óbundnu máli, sem áður er sagt. Enn ljóðmæli hans gáfu þeir Brinjólfur og Konráð út í sameiningu árið 1847, og er útgáfan mjög vönduð að öllum frágangi. Fegurri minnisvarða gátu þeir ekki reist vini sínum.

Þegar Konráð var orðinn trúlofaður, fór hann að hugsa um að staðfesta ráð sitt og útvega sjer lífvænlega stöðu. Um þessar mundir var mikið talað um endurbót á latínuskólanum og flutning hans frá Bessastöðum til Reikjavíkur, og kom Sveinbjörn Egilsson til Hafnar um haustið 1845 til að búa sig undir að taka við skólastjórninni og til skrafs og ráðagerðar við skólastjórnarráðið, og var í Höfn um veturinn. Konráð var mjög handgenginn Sveinbirni, og með hans ráði sótti hann um kennaraembættið við skólann og fjekk það 27. apríl 1846; átti hann að taka við embættinu um haustið í októbermánuði.

Enn þetta fór öðruvísi enn ætlað var. Konráð sá sjer ekki fært að fara heim til Íslands um sumarið eins og til stóð, því að bæði hafði hann ímis

---

1) Lektor Sigurður Melsteð hefur góðfúslega sagt mjer frá þessu. Hann var sambílismaður Konraðs um stund það vor, áður hann (ɔ: S. M.) færi heim til Íslands.

vísindastörf firir stafni, og svo var hann ekki enn þá búinn að ná sjer aftur eftir sjúkleik sinn; hann fjekk því leifi til að vera kir í Kaupmannahöfn vetrarlangt (1846—1847). Enn þegar sá vetur var liðinn, þá kom firir sá atburður, sem gerði Konráð afhuga því að fara heim. Heitmei hans andaðist, og tók Konráð sjer lát hennar fjarskalega nærri, svo að hann var varla mönnunum sinnandi. Hann þurfti nú ekki framar að hugsa um að ala önn firir konu og börnum og vildi því ekki ifirgefa vísindastörf sín í Kaupmannahöfn, sem vóru honum huggun í harmi hans. Um þetta leiti mun hann og hafa verið búinn að fá nokkra von um að geta komist að háskólanum, og kaus hann það heldur enn að fara heim til Íslands, úr því sem komið var. Þess þurfti heldur ekki lengi að bíða, því að næsta ár — 1848 — um vorið (2. maí) var hann gerður aukakennari og lektor við háskólann í norrænum málum. Var þá útsjeð um það, að hann færi heim.

Upp frá þessu var líf Konráðs eingöngu helgað vísindunum, einkum þeim, sem snerta forntungu vora og bókmentir vorar í fornöld, og get jeg nú farið stutt ifir sögu úr þessu, því að dr. Finnur Jónsson hefur rækilega rakið vísindaferil Konráðs eftir þetta í »Arkiv för nordisk filologi 7. b. (Ny följd 3. b.)». Vegna þeirra, sem ekki eiga kost á að kinna sjer ritgjörð doktors Finns, mun jeg þó í stuttu máli gera grein firir hinum helstu vísindastörfum Konráðs upp frá þessum tíma.

Jeg hef áður getið um bæði hin miklu verk, sem Konráð hafði firir stafni um þessar mundir, íslensku og dönsku orðabókina. Enn jafnframt þessu fór hann nú af kappi að gefa sig við útgáfum íslenskra sögurita. Snemma á árinu 1847 hafði hann

með fleirum stofnað »Hið norræna bókmentafjelag« (»Nordisk literatur-samfund«) og gaf hann þegar á sama ári út tvær sögur firir það fjelag, Hrafnkelssögu (í annað sinn) og Droplaugarsona sögu. Tveim árum síðar (1849) gaf hann út »Tvær sögur af Gísla Súrssini« og árið 1852 Fóstbræðrasögu firir hið sama fjelag. Allar þessar útgáfur bera vott um frábæra þekkingu hans á fornmálinu, einstaka vandvirkni, og framúrskarandi skarpleik í því að dæma milli handritanna. Vísur þær, sem koma firir í sögunum, eru prentaðar nákvæmlega stafrjett eftir handritunum.

Eftir 1852 líða svo nokkur ár, að lítið sjest frá Konráði á prenti. Hann var um þær mundir önnum kafinn í því að safna til íslensku orðabókarinnar firir erfingja Cleasbys, og naut aðstoðar ímsra landa sinna í Höfn við það starf, t. d. Eiríks Jónssonar o. fl. Enn árið 1854 heimtuðu erfingjarnir af honum alt safnið, sem áður er sagt, og fjell Konráði það illa, sem von var. Mun þetta um hríð hafa lamað starfsemi hans. Ári síðar kvongaðist Konráð ekkju þeirri, sem fir var getið, sistur heitmeijar sinnar, sem hann misti árið 1847. Ekkjan átti son úr hinu firra hjónabandi, sem var hálfviti, og tók Konráð hann sjer í sonar stað og reindist honum eins og besti faðir. Fjárhagur hans var altaf þröngur, því að launin, sem stöðu hans filgdu, vóru lítil, og mun hann því nú með fram hafa orðið að vinna firir sjer og sínum með aukakenslu, þegar hann átti firir fleirum að sjá, og hefur það vafalaust tafið firir vísindaiðkunum hans.

Árið 1858 komu út 2 mjög merkileg rit eftir Konráð. Annað var útgáfa þeirra brota, sem til eru af hinni fornu íslensku þíðingu á Elucidarius, gerð

með þeirri dæmafáu nákvæmni, sem Konráði var eiginleg, og filgdu mjög merkilegar og fróðlegar athugasemdir. Þessa útgáfu má vafalaust telja einhverja hina vönduðustu og bestu, sem til er á prenti af nokkru íslensku fornriti[1]. Eitt af Elucidariusarbrotunum, sem Konráð gaf út, er eitt meðal hinna elstu skinnhandrita, sem til eru frá fornöld, og gaf Konráð það út í annað sinn, steinprentað eftir ljósmindum, árið 1869. Hitt ritið, sem Konráð gaf út árið 1858, var 1. hefti af málmindafræði fornislenskri. Nær það ifir hljóðfræðina og upphaf nafnorðabeigingarinnar, enn framhaldið kom aldrei út. Orsökin til þess mun hafa verið sú, að skoðanir Konráðs um ímislegt í beigingarfræðinni breittust nokkuð, eftir það að hann gaf út þetta firsta hefti, svo að honum líkaði það ekki alskostar, og vildi þess vegna ekki halda ritinu áfram[2]. Samt sem áður bar hljóðfræðin í þessu hefti langt af öllu því, sem þangað til hafði sjest um það efni, og stendur hún að minni higgju í sumum atriðum framar enn þau rit, sem síðan hafa komið út í þeirri grein.

Árið 1860 gaf Konráð út »Sínisbók íslenskrar tungu og íslenskra bókmenta í fornöld«, og vóru þar í 44 sínishorn af íslenskum fornritum, og höfðu flest af þeim ekki verið gefin út áður. Eins og við var að búast af Konráði, var útgáfan í alla staði hin vandaðasta.

Hingað til hafði Konráð mest fengist við útgáfur fornrita og málfræðislegar rannsóknir, enn nú fer

1) Það er furða, að dr. Finnur Jónsson ekki skuli nefna hana á nafn í grein sinni um Konráð, og er það líklega sprottið af ógáti, enn ekki gert af ásettu ráði.

2) Sbr. t. d. Tidskrift for filologi og pædagogik VI (1860) á 252. bls.

hann jafnframt að leggja stund á fornan kveðskap af hinu mesta kappi, og hneigist hann æ meira og meira að þeirri grein, eftir því sem á líður æfi hans. Samt vanrækti hann ekki málfræðina eða útgáfustörfin, heldur skrifaði hann mjög margar ágætar ritgjörðir málfræðislegs efnis, sem flestar eru taldar í grein Finns Jónssonar um Konráð, og árið 1875 gaf hann út textann af Njálu ásamt Eiríki Jónssini með vanalegri vandvirkni. Enn einkum hefur hann þó með ritum sínum um fornislenskan kveðskap getið sjer þann orðstír, sem aldrei mun deija, meðan nokkur vísindamaður leggur stund á bókmentir vorar og mál, og skrifað nafn sitt í sögu vísindanna við hlið Sveinbjarnar Egilssonar. Á þeim grundvelli, sem Sveinbjörn hafði lagt, hleður Konráð þann köst, sem lengi mun standa »óbrotgjarn í bragar túni«. Enginn maður hefur enn þá náð jafndjúpri og margháttaðri þekkingu á fornislenskum kveðskap eins og Konráð, eða komist eins vel inn í anda hans. Allar skíringar á kvæðum fornskálda vorra eru mjög miklum erfiðleikum bundnar, bæði af því að skáldin sjálf ljeku sjer að því að irkja mirkt, og af því að þau hafa íms orð og orðatiltæki, sem vóru góð og gild á þeirra tímum, enn nú eru mirk og torskilin, og eigi hvað síst af því að kvæðin hafa oft aflagast fjarska mikið í munnmælum og í riti á hinum langa tíma, sem liðið hefur, síðan þau vóru kveðin. Hvergi lísir gáfnasnild og skarpleikur Konráðs sjer eins glæsilega, eins og þegar hann reinir að vinna sigur á öllum þessum erfiðleikum. Aðferð hans er í stuttu máli þessi. First rannsakar hann með hinni smásmuglegustu nákvæmni, hvað standi í handritunum, og vill þá oft svo til, að honum tekst að greiða úr flækjunni og finna hið upphaflega í einhverju hand-

riti eða með samanburði á þeim. Enn oft kemur það firir, að vísa er að einhverju leiti bjöguð í öllum handritum, og þá kemur hinn dæmafái skarpleiki Konráðs fram í hinum ljósu sönnunum, sem hann leiðir að því, að eitthvað sje úr lagi fært, og hin frábæra hugvitssnild hans lísir sjer í þeirri óviðjafnanlegu getspeki, sem hjálpar honum til að spá í eiðurnar og geta sjer í vonirnar um það, hvað skáldið muni hafa kveðið upphaflega. Og hann skilur ekki við vísuna, fir enn hvert orð og hver setning er orðin honum sjálfum og lesandanum ljósari enn dagurinn, og það liggur í augum uppi, að svona hlítur skáldið að hafa kveðið og ekki öðruvísi, og þessa þíðingu hefur hann lagt í orð sín og enga aðra. Með skáldlegu ímindunarafli og djúpri þekkingu á mannlegri sálu tekst Konráði að setja sig svo í spor hins gamla skálds og skignast inst inn í hugskot þess, að hann sjer af einskonar spámannlegri andagift eða ófreskisgáfu, hvað skáldið hlítur að hafa hugsað og sagt. Í einni merkilegri ritgjörð um fornan kveðskap kemst hann svo að orði: »Kvæði fornskáldanna eru ekki firir einfalda lesendur eða áheirendur, heldur heimtuðu skáldin af þeim, sem á hlíddu, að þeir eigi að eins væri færir um að geima kvæðið í minni sinu óbjagað, að því er formið snerti, heldur einnig að þeir gætu ráðið hina torskildustu hugsun, sem þeir oft virðast gera sjer far um að dilja með flókinni orðaröð og setningaskipun, rjett eins og það væri einn hinn helsti tilgangur þeirra, að reina skarpleik áheirendanna. Því verða menn að halda áfram að íhuga hina mirku vísuhelminga þeirra með þolinmæði og athigli, þangað til eðlileg hugsun kemur í ljós af sjálfu sjer og raðar niður orðunum. Þó að ólíklegt sje, þá verða menn oft

eins og að *smjúga inn í sál skáldsins, áður enn menn hlusta á rödd hans*. Það mun varla vera til nokkur sú bókmentategund í heimi, þar sem skírandinn verður eins oft að minsta kosti að renna grun í efnið, til þess að búningur efnisins verði gagnsær. Hins vegar er það auðvitað, að efnið skírist aftur á móti, um leið og búningurinn verður gagnsær«[1]. Þessi fáu orð lísa skíringaraðferð Konráðs betur enn jeg er fær um. Þau leifa oss, — að jeg taki mjer orð Konráðs í munn — að smjúga inn í sál hans sjálfs á því augnabragði, sem hann bjó til hinar ágætu vísnaskíringar sínar.

Á hinum síðari æfiárum Konráðs tók fornislensk bragfræði mjög miklum framförum, og var það í firstu að þakka útlendum vísindamönnum. Árið 1863 fann danskur maður E. Jessen það lögmál, að sú samstafa, sem er næst hinni síðustu, í dróttkvæðum hætti, er altaf löng hjá fornskáldunum, það er svo að skilja að samstafan annaðhvort hefur í sjer langan hljóðstaf með einum samhljóðanda eða fleirum á eftir, eða stuttan hljóðstaf með fleirum enn einum samhljóðanda á eftir; og er »langur« hljóðstafur hjer haft um þá hljóðstafi, sem ávalt höfðu seinan framburð í fornmálinu (t. d. *á, é, í, ó, ú* o. s. frv.), enn »stuttur hljóðstafur« um þá, sem höfðu fljótan framburð (t. d. *a, e, i, o, u*, o. s. frv.). Hjer um bil 15 árum síðar (á árunum 1878—1885) gerði ágætur þískur vísindamaður E. Sievers, þá uppgötvun, að eigi að eins næst síðasta samstafan, heldur og allar samstöfurnar í dróttkvæðum hætti filgja föstum lögum, að því er

1) Konráð Gíslason: Nogle bemærkninger om skjaldedigtenes beskaffenhed i formel henseende, Vidensk. selsk. skr. 5. række 4. bind VII, á 314.—315. bls.

snertir lengd eða stuttleik samstafnanna og áherslu þeirra. Þessi uppgötvun Sievers gerði fjarska mikla biltingu í fornislenskum vísnaskíringum og málfræði. Hún kollvarpaði meðal annars skoðunum þeim, sem Konráð hafði haft, á framburði hljóðstafanna í fornöld, auk þess sem hún innleiddi spánijar bragfræðisreglur, sem enginn vísnaskírandi hafði áður tekið tillit til. Það er sómi firir Konráð, að hann ekki hjelt dauðahaldi í hinar gömlu skoðanir sínar, eins og sumum þrákálfum er títt, heldur ljet sannfærast af röksemdum Sievers og reindi til að bæta og fullkomna uppgötvun hans í hinum síðustu ritum sínum.

Það væri hægðarleikur að telja upp allar hinar mörgu ritgjörðir Konráðs um fornislenskan kveðskap, enn lesendurnir mundu lítið græða á þess konar upptalningi. Jeg mun því að eins nefna hinar merkustu og er þó örðugt úr að velja, þar sem allar eru merkar. Ritgjörð sú, sem áður var til vitnað, »Nogle bemærkninger om skjaldedigtenes beskaffenhed i formel henseende«, sínir fram á mismuninn milli kveðskapar fornmanna og sundurlausrar ræðu, að því er formið snertir. Ritgjörðin »Om helrim i første og tredje linje af regelmæssigt ‚dróttkvætt' og ‚hrynhenda'« sannar með ljósum rökum, að fornskáldin hafi stundum leift sjer að hafa aðalhendingar í firsta og þriðja vísuorði í dróttkveðnum vísum og hrinhendu, og kom hún út sem háskólaboðsrit firir árið 1877. Lengstar og ifirgripsmestar eru ritgjörðir þær um fornan kveðskap, sem Konráð gaf út í 2. bindi Njálu sinnar. Þar er first afarlöng ritgjörð, »Njáll eða Níall«, sem sannar, að vísuorð með 5 samstöfum komi ekki firir í reglulegum dróttkvæðum hætti. Þá koma skíringar Konráðs á vísunum í Njálu og loks aftast í bindinu athugasemdir höfund-

arins við báðar hinar firri ritgjörðir. Allar þessar ritgjörðir bera hinn ljósasta vott um gáfnasnild höfundarins, skarpleik hans og getspeki, frábæra nákvæmni og dípstu þekkingu á anda hins forna kveðskapar og á forntungunni. Konráð hjelt áfram að starfa að vísnaskíringum til dauðadags, og ætlaði sjer, ef aldur hefði enst, að gefa út safn af fornkvæðum með tilheirandi skíringum. Ritið var komið nokkuð langt á leið, þegar hann dó, enn þó ekki búið, og fanst það í skjölum hans eftir hann látinn. Það mun verða gefið út af Árna-Magnússonar nefndinni ásamt fleiri ritgjörðum hans óprentuðum.

Oftar enn einu sinni komst Konráð í ritdeilur út af vísindalegum efnum. Hann var þá harður í horn að taka og brá oft firir sig sárbeittri findni, sem minnir á Heine uppáhaldsskáld Konráðs. Ritdeila hans við Guðbrand Vigfússon í Norðra og Íslendingi mun helst vera kunn almenningi hjer á landi[1]. Þessir tveir merkismenn báru ekki gæfu til samþikkis sín á milli, og verður því ekki neitað, að Guðbrandur fór í ritdeilunni mjög svo halloka firir Konráði í flestum greinum, enda skorti hann mikið á við Konráð í *málfræðislegri* þekkingu. Vinur minn, rektor Jón Þorkelsson, hefur sagt mjer, að ritdeila hafi spunnist út úr »Frumpörtunum« milli Konráðs og hins ágæta norska sagnfræðings P. A. Munchs, enn ekki hef jeg getað komist ifir þau rit. Árið 1866 átti Konráð stutta ritdeilu við Benedikt Gröndal;

---

1) Sbr. Norðra V, 81.—84. bls. VI, 137. bls. og VIII, 66. og 121.—122. bls. (sbr. greinir Guðbrands í Níjum Fjelagsritum 1857 og 1858 og í Þjóðólfi XI, 5. bls. og 119. bls.), Íslending I, 67.—68. og 139. bls. (sbr. Þjóðólf XII, 77. bls.), III, 39., 58., 79., 108. og 116. bls.

hafði hann ráðist á Konráð í sjerstökum bæklingi[1] firir það, að Konráð hafði leift sjer að vera ósamdóma föður hans Sveinbirni Egilssini. Konráð svaraði honum í »Fædrelandet« 1866, nr. 252, enn Gröndal svaraði nokkru síðar í sama blaði (nr. 259.). Árið 1869 deildi Konráð við hinn fræga norska vísindamann Sophus Bugge um málið á hinum elstu rúnaritum[2]; svaraði Bugge honum aftur árið 1870 og fjekk árið eftir svar frá Konráði[3]. Árið 1884 komst Konráð einnig í pennadeilu við orðabókarhöfundinn norska Johan Fritzner út úr þíðingu orðsins *kvett* í vísu marmennilsins í Hálfs sögu: sem birjar svo:

Kalt vatn augum
enn kvett tönnum[4].

---

Jeg hef þannig gefið stutt og ófullkomið ifirlit ifir vísindastörf Konráðs, frá því hann varð kennari við háskólann, þangað til hann dó. Þó vona jeg, að mjer hafi tekist að sína fram á, hve mikla þíðingu þessi störf hafa haft firir vísindin og sjerstaklega firir þekkinguna á hinni ágætu forntungu vorri og á fornum kveðskap, sem er ein hin merkasta grein íslenskra menta í fornöld. Þessi hin síðari rit

1) »Svar for Sveinbjörn Egilsson til professor Konr. Gíslason«. Khöfn 1866.

2) »De ældste runeindskrifters sproglige stilling« í Årbøger for nord. oldk. og historie 1869.

3) Sophus Bugge: »Lidt om de ældste nordiske runeindskrifters sproglige stilling« í sama riti 1870. Konráð Gíslason: »De ældste runeindskrifters sproglige stilling« í sama riti árið 1871.

4) Arkiv for nordisk filologi II, 161.—163. og 275.—286. bls.

Konráðs hafa auðvitað mjög mikla þíðingu firir land vort og þjóð, því að ekki er það einskis vert firir oss, sem nú lifum, að bæði vjer og aðrir hafi sem rjettastar hugmindir um mál og bókmentir feðra vorra. Enn þau eru skrifuð á dönsku, svo að það er að eins efni þeirra, sem snertir bókmentir vor Íslendinga. Jeg hef því af ásettu ráði verið fjölorðari um hin eldri rit Konráðs, sem hann samdi, áður enn vísindin tóku hann algjörlega í faðm sinn, meðan hann var umkomulaus námsmaður í Kaupmannahöfn, því að þau eru skrifuð á móðurmáli voru, þau eru eign hinnar íslensku þjóðar einnar, og þau hafa *beinlínis* haft mikil áhrif á tungu þá, sem vjer *nú* tölum og ritum, þá tungu, sem vjer ættum að elska jafnvel meira enn fornmálið, því að hún er hold af voru holdi og blóð af voru blóði, og á henni hugsum vjer alt, sem vjer hugsum, og látum það í ljósi hvor firir öðrum.

Fjárhagur Konráðs var lengi mjög bágborinn vegna gamalla skulda, sem hann hafði safnað, áður enn hann varð kennari við háskólann. Laun hans vóru og lítil framan af, þangað til hann varð reglulegur prófessor við háskólann árið 1862 — áður hafði hann haft prófessors nafnbót, sem engin laun filgdu (frá því 1853) — enn úr því fóru laun hans vaxandi, svo að hann komst úr skuldahelsinu og gat lifað áhiggjulaust, og á efri árum fór honum að safnast nokkuð fje. Hann átti engin börn með konu sinni, og misti hana árið 1877 eftir 22 ára samveru. Hann unni konu sinni mikið, og lísti trigð hans sjer í því, að hann ljet sjer ekki af hendi hálfvitann, son hennar eftir firra manninn, þegar hún var dáin, heldur hafði hann hjá sjer til dauðadags, og hefði hann þó verið best kominn í einhverri af þeim stofnunum,

sem taka að sjer slíka aumingja. Líka reindist hann hinn mesti bjargvættur fátækum ættingjum konu sinnar eftir lát hennar. Árið 1886 fjekk hann lausn frá prófessorsembætti sínu, lifði síðan í kirð og næði til dauðadags, og gaf sig allan við vísindalegum rannsóknum.

Það er auðvitað, að slíkum manni vóru veittar ímsar viðurkenningar og sæmdir. Sumt af þessu hefur hann talið í sjálfsæfi sinni hjer að framan. Auk þess skal jeg geta þess, að honum var veitt doktorsnafnbót í heiðurs skini af háskólanum í Lundi árið 1868. Hann var og riddari af »dannebroge« og »leiðarstjörnunni«. Á árunum 1848—1849 sat hann á grundvallarlaga þingi Dana sem konungkjörinn þingmaður firir Ísland.

Höfundur þessarar greinar var samtíða Konráði Gíslasini í Kaupmannahöfn á árunum 1872—1879 að fráteknu 1³/₄ ári, sem jeg var sumpart heima á Íslandi, sumpart á ferðum um Norðurálfuna. Samt sem áður kintist jeg ekki Konráði til muna fir enn eftir suðurför mína árið 1878. Meðan kona hans lifði, var hann oftast heima hjá sjer, nema þegar hann kendi í háskólanum eða sat að lestri í bókasöfnunum. Hann hafði þá lítið sambland við landa sína hina ingri. Þeir söfnuðust allir í kringum Jón Sigurðsson, enn með þeim Konráði og Jóni var engin vinátta, þó að þeir reindar ekki heldur væru neinir óvinir. Mun ávalt hafa elt eftir af kalanum milli Fjölnismanna og Fjelagsritamanna, og svo var Jón aldavinur Guðbrands Vigfússonar, óvinar Konráðs. Um þessar mundir hafði Konráð mest samneiti við Eirík Jónsson, sem vann að Njálu útgáfunni með honum, og við fornvin sinn Magnús Eiríksson, sömuleiðis við Vilhjálm Finsen og Sigurð L. Jónasson.

Þeir Gísli Brinjólfsson vóru og góðkunningjar, þó ólíkir væru, eins og sjá má á kvæði því, sem Gísli orti til hans[1]. Undarlegt var það, að Konráði virtist vera það heldur á móti um þessar mundir, að landar hans hlustuðu á firirlestra þá, sem hann hjelt. Einu sinni ætlaði jeg að hlusta á firirlestra hans, mig minnir þeir væru um Fóstbræðra sögu, enn eftir tímann tók Konráð mig tali, og sagði, að þessir firirlestrar væru að eins firir birjendur, og að það væri ekki til annars firir mig enn til að eiða tímanum að hlusta á þá. Síðar vissi jeg þó til, að aðrir Íslendingar hlíddu á firirlestra hans um fornan kveðskap og bragfræði. Alla lærisveina Konráðs, bæði danska og íslenska, hef jeg heirt ljúka upp einum munni um það, að þeir hafi haft mikið gagn af kenslu hans. Hann fór mjög nákvæmlega í hvert orð, sem firir kom í fornritum þeim, sem hann skírði, og komst ekki langt í hverri stund, enn honum tókst líka að gera efnið svo ljóst firir áheirendum sínum, að þar bar hvergi skugga á.

Eftir andlát konu sinnar fór Konráð að hafa nokkru meiri afskifti af hinum ingri löndum sínum, og þá first komst jeg í nánari kunningsskap við hann, og heimsótti hann við og við. Hann bjó þá ásamt stjúpsini sínum í Austurbrúargötu og var sisturdóttir konu hans bústíra hjá honum. Tvo hunda átti hann, sem honum þótti mjög vænt um, og stukku

---

1) Ljóðmæli Gísla Brinjólfssonar, Kaupmannahöfn 1891 á 236. bls. Í brjefi til mín, dagsettu 30. maí 1888 segir Konráð: «Gísli Brinjólfsson er nú nídáinn af blóðspíju, enn hafði verið á ferli og inni í Regensi daginn áður enn hann andaðist. Jeg hef kent ósköp í brjósti um hann seinustu árin. — Hann var fróður og minnisgóður og hafði, að mjer fannst, manna best vit á, hvað fallegt er og fallegast í fornum skáldskap«.

þeir upp með gelti og óhljóðum, þegar einhver kom, þangað til Konráð hastaði á þá. Allmikið bókasafn átti hann, enn þó minna enn við var að búast af svo gömlum vísindamanni; hafði hann áður orðið að selja mikið af bókum sínum til að gjalda skuldir. Í viðtali var Konráð hinn altilegasti og skemtilegasti, findinn og fjörugur, og mjög fróðlegt var að tala við hann um vísindaleg efni, enn heldur var hann dulur á skoðunum sínum við þá, sem hann ekki þekti því betur. Sumarið 1883 fór jeg til Hafnar, og var jeg þá svo lánsamur að ná fullu vinfengi Konráðs, og hjelst vinátta okkar upp frá því. Get jeg sagt það með sanni, að jeg hefi sjaldan kinst jafnelskuverðum manni í alla staði.

Konráð var lágur meðalmaður vexti, grannur og vel vaxinn, svartur á hár og skegg, enn hærðist, þegar hann eltist, fríður í andliti, ennið hátt og hvelft, augun blá og snör; ljet hann skegg sitt vaxa um alt niðurandlitið, að minsta kosti á efri árum. Skáldmæltur var hann vel og átti hægt með að irkja, enn lítið tamdi hann sjer það nema í vinahóp; þá kastaði hann oft fram lausavísum, sem altaf vóru findnar og smellnar, enn stundum nokkuð klúrar. Hann var trúrækinn maður og guðhræddur, triggur og vinfastur. Til merkis um trigð hans skal jeg geta þess, að hann hafði brjefaskifti við fornvin sinn og skólabróður Stefán Þorvaldsson, prófast og prest í Stafholti, þangað til sjera Stefán dó[1]. Scheving geimdi

---

1) Í brjefi Konráðs til mín, dags. 5. nóv. 1885, segir svo: »Vænt þótti mjer um seinasta brjefið þitt og hjartanlega þakka jeg þjer firir það, sem þú skrifaðir af ástvini mínum og skólabróður sjera Stefáni í Stafholti. Skjaldan eldast skólabræður! Og jeg hef nú fengið frá honum ágætt og rækilegt brjef líklega, skrifað af sonarsini hans og dagsett 25. ágúst«.

hann í þakklátu hjarta til dauðadags[1]. Þessi trigð hans náði einnig til skinlausra kvikinda, sem honum þótti vænt um. Þannig skrifar hann mjer 5. nóv. 1885. »Nú er jeg búinn að missa annan hundinn minn, sem jeg sakna mikið og mjer þótti meira í varið enn þùsund þúsunda af guðníðingum«. Litlu síðar misti hann einnig hinn hundinn, og þá skrifar hann í brjefi til mín, dags. 2. jan. 1886: »28. desember misti jeg seinasta vin minn í Kaupmannahöfn«, og síðar í sama brjefi: »Síðan 28. desember árið sem leið (1885) er mjer fallinn allur ketill í eld«, og enn síðar: »Síðan 28. des. 1885 hef jeg ekkert getað gert, $^{12.}/_{1}$. 85«. Trigð sinni við íslenskuna hjelt hann og til dauðadags, og hann gat orðið frá sjer numinn af gremju, ef hann sá henni misboðið, og honum þótti sú kinslóð sem nú lifir misbjóða henni í mörgu. Jeg get ekki bundist þess að tilfæra um þetta efni kafla úr brjefi Konráðs til mín, dagsettu 9. janúar 1885, þvi að hann lísir svo vel höfundinum.

»Óskóp þætti mjer vænt um, ef þjer vilduð taka að iður (— *»að taka iður af«* mundi vera íslenskan núna!!!) kvennvæflu, sem hefur verið sæmilegur kvennmaður á unga aldri, enn nú er orðinn púta, og hefur »f . . . . ós« eða er að minsta kosti danósa.

---

Og í brjefi, dags. 21. ágúst 1886 segir hann: »Jeg þakka þjer hjartanlega kveðjusending sjera Stefáns. »Des todes hand schlug meine brüder«, og nú eru ekki margir á lífi; — atli Íslendingar fari ekki bráðum að segja *í* lífi! — af skólabræðrum mínum (Pjetur biskup, sjera Stefán, sjera Sigurður á Útskálum, sjera Jón Austmann? Eggert Briem??).

1) Í brjefi til mín, dags. 10. júlí 1885 segir Konráð meðal annars: »13. þ. m., *afmælisdag Hallgríms Schevings*, ætla jeg að birja maltdrikkju mjer til heilsubótar. *Hátíð er til heilla best«*.

Þessi aumingja kvennvæfla er íslenskan. *Mjer er nærri því sama*[1], hvernig hún er, ef hún er ekki danósa. Við Íslendingar, að minsta kosti vel flestir, förum með hana eins og við værum djöflar enn ekki menn. Jeg tek að eins eitt eða tvö dæmi af mímörgum: 1) Af því að Danir segja «velvilje« o. s. frv. segja Íslendingar nú »velvilji« og »velvild« (enn »góðvilji« og »góðvild« dettur þeim ekki í hug). 2) Um það leiti, sem Danir fóru að sleppa »som« í upptekningu, fóru Íslendingar að segja og skrifa: »þessi bók, sem hjer liggur, og *sem* jeg er búinn að lesa«. 3) Skástu mennirnir — hvað þá aðrir? — segja nú »*á* Færeijum« og »*á* Sámsei«! 4) Og þar fram eftir götunum! Það er eins og hrækt sje framan í mig, þegar jeg sje eða heiri annað eins. Þess vegna bið jeg iður nú og særi iður firir drengskap iðar, að þjer læknið þenna aumingja, doktor góður, og reisið hann á fætur og hjálpið honum sem best. Og þjer munuð sanna, að þá mun flest ganga iður að sólu — sem óskar af alhuga

einlægur föðurbróðir[2] iðar
Konráð Gíslason«.

Á hinum síðustu æfiárum Konráðs var mart, sem amaði að honum. Bústíra hans, sisturdóttir konu hans, dó árið 1886, og tók hann þá í hennar stað aðra sisturdóttur konu sinnar enn hún dó rjett firir jólin 1887 og var grafin firsta í jólum. »Það vóru skemtileg jól!« segir Konráð í brjefi til mín, skrifuðu rjett á eftir, (11. jan. 1888). »Elskulegi bróðursonur,

1) Auðkent af Konráði.

2) Faðir minn var *skóla*bróðir Konráðs og fornvinur og mun jeg meðfram hafa átt því að þakka góðvild hans og vináttu til mín. Af því var hann einnig vanur að kalla mig bróðurson sinn, og sagði mjer að kalla sig föðurbróður.

þú getur varla farið nærri um, hvað öll þessi eimd hefur truflað »mína hugstóru sál«, og hvaða frátafir hún hefur gert mjer, einstæðingnum, sem engan á þjónustumanninn og verð að vera á hlaupum, meðan jeg er að búa mig undir gröfina. Enn nú er eins og komið sje nokkuð logn eftir »storma stríða«, hvað lengi sem það helst«. Um þetta leiti þjáðist hann og mjög af brjóstveiki, hrigglu og hósta (»bronchitis«). Hann tók þá enn til sín hina þriðju sisturdóttur konu sinnar sem bústíru, og var hún hjá honum, þangað til hann dó, gekk honum í dóttur stað og veitti honum þá hjúkrun og aðhlinning, sem honum var svo nauðsinleg. Henni þakkaði hann það í brjefum sínum til mín, að honum batnaði talsvert brjóstveikin síðustu árin, enn þó þjáði hún hann altaf við og við.

Konráð hjelt óskertum sálarkröftum fram í andlátið og hjelt altaf áfram vísindastörfum sínum af mesta kappi, enn kvartar þó undan, að sjer gangi seint, því að hann var seinvirkur, eins og allir þeir, sem vandvirkir eru. Hann dó sunnudaginn 4. janúar 1891 eftir stutta og þjáningalitla legu og var jarðaður 9. s. m. í Assistentskirkjugarði. Eigur sínar ánafnaði hann Árna Magnússonar stofnuninni, sem honum var svo kær vegna hinna fornu íslensku handrita, sem hún geimir, og af því að hann hafði notið stirks af henni í æsku og síðan í meira enn 40 ár verið einn af umsjónarmönnum hennar. Enn stjúpsonur hans og sisturdóttir konu hans eiga að njóta vaxtanna af fjenu, meðan þau lifa.

Svo er þá sá maður til moldar genginn, sem einna mest og best hefur unnið að því að hreinsa og bæta móðurmál vort.

»Hver verður nú til hans vopnin góð
í hraustlega hönd að taka?«.

## Filgiskjöl
### með ritgjörðinni um Konráð Gíslason.

---

1. **Úrsagnarbrjef Jóns Sigurðssonar o. fl. úr fjelagi Fjölnismanna,** prentað eftir uppkasti Jóns Sigurðssonar í safni hans Nr. 153 fol.

Þareð oss virðist sem tilgangur fjelags þess, sem stofnað hefur verið til að stiðja og efla fróðleik og kunnáttu Íslendinga o. s. frv. ekki náist, þegar lagagreinum þeim er filgt, sem 4 atkvæði mót 8 hafa lögleitt á tveimur enum næstu fundum, sjáum við oss ekki annars kost enn segja oss út úr fjelaginu.

Vjer þikjumst því ekki lengur vera í fjelagi þessu, enn vjer viljum gjarnsamlega að vorum hluta gjalda kostnað þann, sem fjelagið þegar hefur haft firir prentun ritgjörðar sjera Tómasar Sæmundssonar.

Kh. 9. febr. 1841.

Jón Sigurðsson cand philos. P. J. Matthiesen capellan Bjarni Sivertsen stud. philol.
Jón Sigurðsson stud. theol. Ólafur Pálsson[1] stud. theol.

2. **Brjef Fjölnismanna til Fjelagsritamanna** dagsett 20. febrúar 1841, prentað eftir frumritinu í Jóns Sigurðssonar safni Nr. 153 fol.

Af því vjer erum sannfærðir um, að þjer munið vera oss samdóma í, að best sje Íslendingar haldi allir saman enn sundrist ekki, bjóðum vjer iður,

---

1) Öll nöfnin eru skrifuð undir með hendi Jóns Sigurðssonar.

sem stofnað hafið fjelag til að koma út íslensku tímariti, að vjer sameinum fjelög vor og þjer nefnið til menn af iðvarri hálfu, sem first verður, til að semja um sameininguna við þá sjera Pjetur Pjetursson og herra Eggert Brím, sem vjer höfum til þess kjörið fyrir vora hönd.

Kaupmannahöfn 20. dag febrúars 1841.

Brinjólfur Pjetursson. Eggert Brím.
Konráð Gíslason. Gísli Magnússon.
Jón Pjetursson. Pjetur Pjetursson.
Gr. Þ. Thomsen. H. Árnason.

*Aftan á brjefinu stendur:*

Til
herra Bjarna Sivertsens, Jòns Hjaltalíns, Jóns Sigurðssonar, Oddgeirs Stephensens, Ólafs Pálssonar og fjelagsmanna þeirra.

3. **Svar Fjelagsritamanna** upp á undanfarandi brjef prentað eftir uppkasti Jóns Sigurðssonar í safni hans Nr. 153 fol.

Brjef iðar höfum vjer meðtekið og ifirvegað nákvæmlega enn síðan skotið undir atkvæðafjölda, og urðum vjer flestir á því, að oss virðist ekki brín ástæða til að svo komnu að sameina fjelög vor. Oss virðist heldur ekki, að nein eiginleg sundrung lísi sjer í því, þó fjelög vor sjeu tvö, því vor tilgangur er sami og iðar: að vinna fósturjörðu vorri gagn eftir mætti.

4. **Úr brjefi frá Jóni Sigurðssyni til Gísla læknis Hjálmarssonar,** skrifuðu í Kaupmannanöfn 16. apríl 1841. Prentað eftir frumritinu, eign dócents Eiríks Briems.

. . . . . . . . . . Þú manst víst, að í firra vor

var stofnað eins konar Fjölnisfjelag, eða fjelag til að halda áfram Fjölni, enn lítið varð úr, þegar allir vóru komnir heim, svo það lá í dái í firra sumar. Lög þess vóru engin, nema einhverjar munnlegar viðtektir. Nú hugsaði jeg, að enginn vegur mundi verða til að koma út riti, að minsta kosti ekki eins góður, ef ekki væri tekið þetta fjelag, og mundi kannske heppnast að modificera það nokkuð, svo það gæti orðið populært. Sumpart þess vegna, og sumpart af því Brinjólfur bauð mjer, kom jeg í fjelagið og útvegaði því þá meðlimi, sem jeg gat fengið. Ritgjörð eftir sjera Tómas um verslun á Íslandi átti að taka firir, og var nærri komið að, að jeg tæki við henni til að hafa til stirktar til nírrar ritgjörðar um verslunina. Síðan átti að búa til lög, og vórum við Briem og Brinjólfur í nefnd til þess. Þegar kom til umtals rits nafnið, vildum við Briem breita því, þareð við hjeldum, það spilti firir bókinni og væri fjelagslimum óhentugt, og svo af því að nafnið stæði á engu og ætti ekki að vera í lögum; þá átti einnig að skifta bókum upp. Nú þegar kom til fundar, sögðu þeir, að nafnið á ritinu væri lögtekið að skildi heita Fjölnir, og önnur viðtekt væri sú, að engu því, sem lögtekið væri, mætti breita, nema 3/4 voteruðu firir því. Nú vóru 12 á fundi, og voteruðu 8 á móti enn 4 (Konráð, Brinjólfur, Hannes, Jón Pjetursson) með; það er raunar eins og maður voteraði sjálfur um sjálfs síns sök, enn hvað sagði það. Þannig var þá nafnið lögleitt, það er að segja ritið *varð* að heita Fjölnir, þangað til ekki fjekkst 1/4 partur til að vilja það. Nú vildum við hinir fá breitt því, að 3/4 mættu breita lögunum, svo að aldrei skildi þurfa nema einfalt pluralitet, og vildu það 8, enn 4 vildu það ekki, hinir sömu. Þetta

þótti okkur nú nokkuð hart »for principets skyld«, og sögðum við okkur því úr fjelaginu: Hjaltalín, sr. Páll, Bjarni Sivertsen, Ólafur Pálsson, Jón Sigurðsson nafni og jeg. Briem vildi ekki segja sig út, enn Jóhann ætlaði, enn hefur ekki orðið af. Nú tókum við okkur til og stofnuðum fjelag firir okkur, og erum við 12 í því, þessir sem jeg taldi að sögðu sig úr (6), Magnús Eiríksson, Oddgeir, Þorsteinn á Ármóti, Jóhann (sem er í báðum), Guðmundur frændi og Sigurður Melsteð. Við höfum það nú svo, að við veljum nefnd til að standa firir ritinu, og skiftum síðan bókunum first um sinn, svo allir taka kostnað og ábata jöfnum höndum, eftir því sem selst. Í þetta sinn reiknum við ekkert honorar. Nú höfum við þó komið út 9 örkum síðan í febrúar miðjum, þá var ekki farið að skrifa einn staf. Í ritinu er: um prestaskóla á Íslandi, um blóðtökur, um alþing og svo dálítill frjettakafli með vörulista. Nú kemur uppá, hvernig ikkur sínist um, þegar til kemur; jeg veit þjer þikir eitt að alþinginu, og það er, að jeg vil hafa það í Reikjavík, sem þú bölvar og jeg bölva raunar líka að svo stöddu, enn bótin er, að jeg er ógnarlega móderat og læt alt koma upp á alþíðu vilja; jeg vil, að alþíða láti rigna petitiónum ifir þá í sumar í nefndinni, svo þeir þori ekki að svíkjast um, því ef nú sleppur, þá er ekki sagt, hvenær halda kann. Konungur hefur gefið svo gott leifi, sem hann gat, og það eigum við að nota. . . . . Já, satt er það! Jeg gleimdi rúsínunni, sem átti að fara í endann. Þegar við vórum komnir út og búnir að stofna nitt fjelag okkur, þá skrifuðu þeir okkur til og vildu ganga á accord, enn flestra meining hjá okkur var, að það væri ekki vert að svo komnu, svo nú urðu þeir reiðir sumir,

og þú mátt nærri geta, hver pottur og panna er til allrar þessarar tvídrægni, að það er enginn nema — jeg(!?), og þó voteraði jeg jafnvel firir sameiningunni, jafnvel þó jeg væri sannfærður um, að hún mundi verða til lítils. Enn nú kemur önnur rúsína. Jeg trúi þeir ætli nú ekki að kalla ritið Fjölni, eftir að allur þessi *bruit* er gjörður *pour une omelette*; í því eiga að verða ritgjörðir sjera Tómasar: önnur um verslun, önnur um alþing, og kvað þessi seinni vera ágæt, því hún vill hafa alþing í öllum sínum forna blóma frá 12. öld eða firri, með goðorðum og fimtardómum um alt land — geturðu ekki fengið þjer goðorðssnepil? Enn alvarlega að tala, þá hef jeg ekki lesið ritgjörðina, og ekki heirt nema — að því jeg íminda mjer — partiska dóma um hana. Það gleður mig annars, að hún kemur út, svo allir eigi kost á að dæma og velja, hvað best er, því það vona jeg enn, að alþíða á Íslandi hafi »sund sands« svona hjerumbil, þegar hún heirir ástæðurnar.

## 5. Lög Fjölnismanna hinna ingri.

Prentuð eftir afskrift með hendi Gísla Magnússonar í safni Jóns Sigurðssonar nr. 516, 4to.

### *1. þáttur.*

**Um tilgang fjelagsins.**

1. gr.

Íslendingar viljum vjer allir vera.

2. gr.

Vjer viljum vernda mál vort og þjóðerni.

3. gr.

Vjer viljum hafa alþing á Þingvelli.

4. gr.

Í þessu skini viljum vjer árriti uppi halda.

5. gr.

Fjelag vort skal heita . . . og rit vort Fjölnir.

## 2. *þáttur.*

### Um fundi.

6. gr.

Það er lögmætur fundur, ef þar eru fleiri enn helmingur þeirra fjelagsmanna, er hjer eru í Kaupmannahöfn.

7. gr.

Svo er um úrskurði fundarmanna aðra enn þann, er nefndur er í 9. grein, að afl skal ráða með þeim. Nú eru þeir jafnmargir, er sitt sínist hverjum, þá skulu þeir ráða sem forseti filgir.

8. gr.

Lögfundir eru á laugardögum, enn aukafundir, þegar forseti krefur, og er forseti jafnan skildur að hafa fund, ef 3 beiðast eða fleiri.

## 3. *þáttur.*

### Um kosning fjelagsmanna.

9. gr.

Sá er rjett kosinn fjelagsmaður, er þrír fjórðu hlutir kjósa, þeirra sem á lögmætum fundi eru.

## 4. *þáttur.*

### Um stjórn fjelagsins.

10. gr.

Fjelagið hefur einn forseta; hann hefur starf sitt á hendi árlangt, og er kosinn á fundi laugardaginn firstan í sumri. Kjósa má sama mann forseta eins oft og vjer viljum.

11. gr.

Forseti kveður menn til funda.

12. gr.

Forseti ræður á fundum, hann leifir að tala og bíður að hætta, þegar honum þikir of langt frá efninu vikið.

13. gr.

Forseti gengst firir prentun rits vors á því ári, er hann hefur síslu. Ritið á að vera búið við forseta skifti.

14. gr.

Forseti annast bókasölu, og má hann i því skini taka sjer aðstoðarmann, og er sá kosinn á lögmætum fundi.

15. gr.

Fjelagið tekur sjer skrifara, og er hann valinn á ársfundi. Hann bókar það, sem fram fer á fundum, og ritar brjef fjelagsins með umsjón forseta. Hann lætur taka sjer aðstoðarmann, ef hann vill, og er sá kosinn á lögmætum fundi.

16. gr.

Sjerhver grein, sem ætluð er í rit vort, er first lesin á lögmætum fundi, og ef henni er veitt viðtaka, þá er hún tekin annaðhvort skildagalaust eða með því skilirði, að nokkru sje breitt. Síðan er kosin 3 manna nefnd að grandskoða greinina að höfundi viðstöddum, ef hann vill og getur, og segir nefndin honum, hvar sjer þiki umbóta þörf, og hverra, ef henni hugsast það. Jafnan þegar einhverri grein hefur verið breitt, er hún lesin á fundi í annað sinn og skírt frá, hverju breitt sje og af hverjum rökum, þar sem þess þikir þurfa.

Nú er grein með skildaga tekin, og lætur höfundur sjer það líka enn kemur sjer ekki saman við nefndina, þá sker fjelagið úr, hvort það vill hafa greinina með þeim breitingum, sem gerðar eru. I

kvæðum eða ritgerðum fjarlægra manna verður engu breitt, nema þeirra sje leifi til.

17. gr.

Örkina borgum vjer first um sinn með 5 dölum.

*5. þáttur.*

**Um rjett og skildur fjelagsmanna.**

18. gr.

Allir fjelagar eru jafningjar nema að því, er fir var mælt um atkvæði forseta. Þeir eiga allir sæti á fundum og fult atkvæði og rjett til að mæla á fundum, sem lög vor leifa fremst, enn þiki nokkrum sjer órjettur ger, beri hann undir dóm fundarmanna.

19. gr.

Af bókum þeim, sem fjelagið lætur prenta fær hver fjelagsmaður eina.

20. gr.

Hinar bækurnar á fjelagið sjálft og söfnum vjer andvirði þeirra í sjóð, uns hann er orðinn svo stór, að hann má bera rit fjelagsins með leigum sínum.

21. gr.

Tillög fjelagsmanna eru first um sinn 5 dalir á ári. Þeim skal lokið firir sumarmál.

*6. þáttur.*

**Um lögin.**

22. gr.

Þessum lögum má ekki breita, nema tveir þriðju hlutir fallist á breitinguna.